# DRÁPA

UM

# ÖRVAR-ODD

SETT Í TÓLF KVÆÐI

AF

**Benedikt Gröndal.**

---

Útgefendur:

JÓN ÁRNASON, EGILL JÓNSSON, EINAR
þÓRÐARSON, BENEDIKT GRÖNDAL.





REYKJAVÍK,

prentuð í prentsmiðju Íslands

1851.

FJÓRUM

MEÐAL HINNA ÁGÆTUSTU

VÍSINDAMANNA

Á

NORÐURLÖNDUM:

ÁRNA HELGASYNI,

Stiptprófasti Íslands og riddara

dannebrogsorðunnar,

SVEINBIRNI EGILSSYNI,

Doctori theologiae og Rectori hins

lærða skóla í Reykjavík;

RUDOLPH KEYSER,

háskólakennara í Christiania,

og

JÓHANNI CARSTEN af HAUCH,

háskólakennara, Doctori philosophiae og riddara dannebrogsorðunnar,

TILEINKAST

ÞETTA HIÐ FYRSTA HETJUKVÆÐI,

SEM FRUMKVEÐIÐ ER

Á

ÍSLENZKRI TUNGU,

MED LOTNINGU

af

ÚTGEFENDUNUM.

Þú mæra dís, sem býrð í dimmu djúpi,
Þar drynja raddir liðins skjaldar hljóms!
Þar sem að geymir unn í geisla hjúpi
Gunnbjartan hjör til ferlegs norna dóms!
Sveipaðu burtu svölum marar anda,
Er svífur yfir fyrri alda grund,
Og sýndu mjer, hvar siklingarnir standa,
Er sverðin reiddu fyr í styrkri mund!

* * *

Glymjandi áfram geysar alda straumur,
Gullfaldast bára hans á þinni slóð!
Að þínum sölum skundar gumna glaumur,
Og glæstrar fyllir hörpu þinnar óð!
Bardagi sýnist liðinn leiptra draumur,
Ljómar sem glæstar unnir hjörva flóð!
Með helgri rún frá himna gullnum sal
Hrekur þú reyk, er jarðartímann fal!

* * *

Þú sem að ríkir, dimmum drunga vafin,
Á dýrðarstólnum upp í himna sal!
Upp yfir foldar smán og heiður hafin,
Hlustandi æ á stundarfossa tal!
Þar sem að taflan, gullnu letri grafin,
Greinir um stríð og blóðgan orra val:
Sýndu mjer tíðar silfurhríngað lík,
Sökkvabekks dísin há og vizkurík!



# FYRSTA KVÆÐI.

## Ferð Odds til Bjarmalands.

I.

Kveðja nam röðul-ljóminn græna grund,
Geislnðu kossar hans á Dofra-tindum;
Hlæjandi bára hneig um marar sund,
Hljómaði ekki Rán af köldum vindum, —
Sofa tók fugl í svölum birki-lund,
Suðaði foss hjá björtum hamra-lindum:
Þá bundin voru' í búnum skeiðum sverð
Á Berurjóðri, — þar var veizla gerð.

II.

Þar sátu skatnar, skjalda fágnð hvel
Skínandi hjengu yfir kappa sætum,
Og dýrar krásir drengir snæddu vel,
Og drukku fast af ölvahornum mætum;
Þar freyddi bjór við fagra skálar-rönd,
Og fjórir höldar báru hann í kring,
Því Vallands komin var frá suðurströnd
Völva, að segja mönnum skapa-hring.

III.

Hafði hún þulið hverjum æfi-skeið,
Og hermt frá sjónum ókominna daga —
Þá ljet hún snarleg augu skunda skeið
Um skrýddan sal, og orðum svo nam haga:
„Vera mun manna nokkur eptir enn,
Sem ekki frjetti mig um Skuldar ráð;
Hvar er jeg kom, þar fýsti flesta menn
Að frjetta hvað um þá hún hefði skráð“.

IV.

Svo mælti hún, en allir undir tóku,
Og æðrast sögðu þann er eptir var,
Og hraustir kappar hausabjarkir skóku,
Og heltu bjórnum fast í kverkarnar —
Þá reis upp sá, er ekki hafði áður
Um ókominna daga rásir frjett,
Og síðum brúnum, harðri reiði háður,
Að henni vjek, en orðum stýrði sett:

V.

„Ei fýsir mig um ókominna daga
Óvissan gang að fræðast neitt af þjer,
Því Skuld mun vorum skapa-dægrum haga,
Og skugga dylja, enginn hana sjer;
Því mátt ei heldur þú úr dimmu draga
Þá daga leið, sem nornin ætlar mjer; —
Marklaust er hjal um mönnum ætlað skeið,
Það mun þjer eins sem öðrum hulin leið“.

VI.

Þögn varð í sal, en dökk af rammri reiði
Reisti sig völvan upp í glæstum stól:
„Veit jeg það samt, hver verpa mun þjer leiði,
Veit jeg það og, hvar það mun líta sól; —
Sje jeg þá braut, er glæsta muntu ganga,
Þar glóa sverð og dynja hjörva jel —
En heillar aldar eptir tímann langa
Þjer er á Jaðri búin feigð og hel“.

VII.

„Veit jeg það glöggt, að víða muntu fara,
Og voldugastur þykja köppum af;
Allur mun heimur á þinn ljóma stara,
Og allrar jarðar muntu kanna haf. —
En veit jeg og, að gullinum Skuld á skildi
Skrifaði það, að þó um allan heim
Frægasta næðir þú að heyja hildi,
Hjer mundi Faxi eyða dögum þeim

VIII.

Svo mælti hún, og settist aptur niður —
Seig yfir nótt úr himna dimmum sal;
Þögnuðu halir, hætti gleði-kliður,
Horfðu á þau, er saman áttu tal:
Á völvuna frá Vallands mýrtus-dal,
Og verinn þann, sem frægstan nú skal inna,
Og ítarlegri og æðri hverjum hal:
Á Odd á Jaðri, Grímsson loðinkinna.

IX.

Upp nam að standa Oddur, reiði þrunginn,
Og út hann gekk í hugar þungum móð,
Var sem að hjör í hjarta væri stunginn —
Hugsandi nokkra tíð hann frammi stóð;
Kallaði á Ásmund, Ingjalds hraustan niðja,
Og innti honum ráð og vilja sinn,
Ferlegum sköpum frá hann vildi ryðja
Og Faxa sökkva nið'r í jarðdýpin.

X.

„Aldrei skal Faxi fjörvi mínu ræna,
Nje ferleg tönn í minni roðna und;
Ei skal minn haugur hjer í loptið mæna,
Þó heillar aldar líði skapa-stund!
Lygi skal það, að þessi grundin græna
Geti að líta á minn dauða-blund, —
Dreginn mun Faxi dökkva fyr í jörð,
Og drengir standa við hans höfuð-svörð“.

XI.

Opt hafði Faxi áður borið drengi
Um anda slóð og langan fjalladal,
Sem flygi skjótur fugl um himins engi
Svo fleygivakurt ei var jóa-val, —
Nú var hann leiddur fram við festa strengi
Til ferlegs dauða, inn við hamra sal,
Svo eyddust norna orðin grimm og hörð,
Sem aldrei breytast samt á víðri jörð.

XII.

En mánahvelið ljómann fölva faldi —
Í fjarska heyrðist drynja þrumu-hljóð —
Þá gægðist Skuld úr gráu himins tjaldi
Og glotti við, er dundi fáksins blóð; —
Búin var gröf, er brátt með dimmu valdi
Báðum þeim veitti djúpa feigðar-slóð:
Þannig var gjörð sú eitur-skál, er Skuld
Skilfingi geymdi um aldar-fetin huld.

XIII.

Heim gengu þeir, og þá kom brátt að máli
Með þungum huga Oddur Ingjald við:
„Fái mjer skip, með skjöld og björtu stáli,
Og skatna fjöld, og traustast hetju-lið;
Hef jeg ei lönd nje lýða siðu kannað,
En legið hjer við sót og ösku-stó,
Skal mjer ei stríð nje stálajelið bannað,
Jeg stefna mun í víking út á sjó“.

XIV.

„Aldregi hingað aptur mun jeg snúa,
Ásmundur son þinn fara skal með mjer —
Haug minn skal ei á Berurjóðri búa,
Búin mjer ei sú æfileiðin er;
Hræðist eg ekki veður grárra geira,
Nje goðastalla máttarlitla fjöld —
Af minni leið þú munt ei frjetta fleira,
Fela mig bráðum dimmleit skýja-tjöld“.

XV.

Ljómaði sól á lagar blárri öldu,
Löðraði sjór við dökkleitt gnoðar borð, —
Ljeku sjer geislar ljett við hvelfda skjöldu,
Leið áfram skeið um gljúpa Ránar storð; —
Þar rjeði Oddur rekka liði völdu,
Rafnistu vel hann kunni listar orð:
Því enginn vindur hvein um himna slóð,
En hart und seglum skútan áfram óð.

XVI.

Stefndu mót norðri hraustir hringa-brjótar
Hrafnistu til, þar Loðinkinni bjó;
Skilaði bráðum greppum fleyið fljóta
Að fríðri grund, í hafnar trygga þró, —
Feldu þeir dúk, og settu gnoð af sjó,
Og síðan gengu heim að reistum sal,
Þar átti Grímur auð og vínið nóg,
Og inni sat þar mætast kappa val,

XVII.

Þar hitti Oddur Grím að mætu máli,
Og mundi leita ráðs hjá föður-hug:
„Í hug er mjer að bregða bitru stáli,
Og bragna kanna herkunnáttu og dug“ —
Inn gengu menn, og munarvínið skæra
Af málmglóandi drukku veizlu-skál,
Þar kunni margur kappi sig að stæra
Af kvernbíts þyt við dreyrugt orra-bál.

XVIII.

Sárnaði Oddi sverða-fregn að heyra,
Og seggi frjetti hann um víkings lýð,
Þá hlógu menn, og hjeldu læti geira
Að honum mundu varla reynast þýð; —
Og talað var um tilbúninginn gnoða,
Um traustan skjöld og ýmugjarnan brand;
Því frændur Gríms þá fara vildu að skoða
Og frægðar leita um auðugt Bjarmaland.

XIX.

„Of ungur muntú enn til þeirrar ferðar“ —
Við Odd þá ræddi Grímur blítt í sal —
„Því Bjarma þjóðir eru göldrum gerðar,
Og gildast ei þá sigrar hetju-val; —
Dvel þú um stund, og stilltú glæstum fal,
En styrkan her eg síðar mun þjer fá“.
En ekki líkar Oddi þetta tal,
Aptur hann svarar Loðinkinna þá:

XX.

„Fara skal samt með frændum mínum tveim,
Þó fáir þú mjer engin skip og menn;
Og aldrei mun eg aptur koma heim
Ef ei vjer sigrum Bjarmaríkis menn —
Og aptur komum hjer með silfra seim,
Og sverðin dreyrug, farargjöldin þrenn;
Fars vil jeg beiðast frændum mínum hjá,
Mig fýsir einnig Bjarmaland að sjá“.

XXI.

Synjað var Oddi á sjáfar-jó að ganga,
En samt var allra himinguða ráð,
Að hann við norður-hafsins jökuldranga
Hraustlega skyldi bera vopnin fáð,
Í fimmtán daga frændur hans því lágu
Í feiknastormi undir hamra-strönd,
Og veðra-skipti engin ítar sáu,
Því uppheims-skýin földu haf sem lönd.

XXII.

Um morgun einn kom annar þeirra' að máli
Við ítran hal, er skipin átti með:
„Mun nokkuð satt í dimmra drauma táli
Er drótt í blundi fær um nóttu sjeð? —
Það dreymdi mig, að stæði í björtu báli
Bærinn og eyjan; hræddist það mitt geð —
Hvítabjörn nokkur hring um hana sló,
Og halann upp að breiðum kjamma dró“.

XXIII.

„Upp risu hár á feikna-breiðum búki,
Brunnu úr augum glæstir logavendir,
Allt eins og ský, sem háum niðr-af hnúki
Hræðilegustu leiptra-blossa sendir:
Eins hvessti björninn augu fast á fley,
Sem falla mundi hramminn á það láta —
Í svefni hjet jeg bæði á Frigg og Frey,
Mjer fannst jeg eins og viðkvæm kona gráta“.

XXIV.

„Bjóðum vjer Oddi' að ganga með á gnoð,
Því geystum vindi mun ei fyrri linna;
Slík mun hans fylgja — hríð og hjörva-roð
Hygg eg vjer munum nóg með Björnum finna,
Þó fari hann, og fái sig að reyna
Í fólk-orrustu, ungur sverða-grjer". —
Buðu þeir Oddi gnoð og gilda fleina. —
Þá gerði byr, sem skeiðum þægur er.

XXV.

En áður gengi þeir að gráum mar,
Grímur fann Odd, og kom með örvar þrjár,
Lagðar með gulli, og greyptar flaugarnar —
Gersemar mestu', er litið hafði fár. —
„Skilnaðar-gjöf jeg gefa mun nú þjer" —
Svo Grímur mælti — „odda hvassa þrjá,
Við Gusi kennda, gaf þá Ketill mjer,
Er gildum kom hann Finna-þjóðum frá".

XXVI.

„Þegar þú hleypir þeim af stríðum streng,
Þá standa þær í hverju sem þú vilt,
Og sjálfar aptur snúa álms á þveng,
Og sífeldlega' er tala þeirra fylt". —
Glaður varð Oddur þá við frægan feng,
Því fannst ei neinn, er boga jafnt sem hann
Með lögðum örvum draga kynni' í keng,
Og knýja skeyti, um gjörvalls Norvegs rann.

XXVII.

Rofnaði skýjanna skuggalegt tjald,
Og skína nam sól yfir æginn —
Þá brunaði snekkja með byrjarins vald,
Og branzt yfir freyðandi sæinn —
Þá blikuðu tjöld, meðan báran köld
Ljet blossa af skínandi sól
Upprenna á skjöld, sem að skatna öld
Á skeiðinni brunandi fól.

XXVIII.

Það var leiðin, sem Oddur þá fyrstu fór
Sjer frægðar og veldis að leita —
Freyddi und brjóstum á fleyinu sjór
Sem á fáks-bringum líta má sveita —
En með gylltan málm og með greyptan hjálm
Á gnoðinni hetjan stóð,
Og að hlið var skálm, en með hönd á álm
Á hramar hann starði móð.

XXIX.

Þá söng í rám og á römmum slám
Rymjandi stormur af djúpi,
Og í stöngum hám og á geirum grám
Glymjandi í veðranna hjúpi —
Og um dægur þrenn voru dýrir menn
Við dimman Finna sand,
Þá ljetti í senn því leiði, sem enn
Hafði lauka skekið band.

XXX.

Litu þeir margà á láði uppi gamma
Og lögðu að, og þangað gengu heim,
Og tóku þar af Finnum fagran seim,
Og fólu undir þiljum skrefið ramma, -
En Finnar voru farnir út á veiðar,
Og fljóðin máttu ei við hetjum þeim -
Síðan þeir fóru sinnar allir leiðar
Og snekkju bundna leystu stafna-reim.

XXXI.

Seglin þeir undu, og sigldu á haf,
Og sungu þá vindar á húnum —
Og fyr segir ei þeirra ferðum af
En fleyið með seglum búnum
Í Vínu munn út af votri unn
Með voldugum slögum óð,
Og í þynar grunni við þara runn
Hið þunga akkeri stóð.

XXXII.

Skuggalegur var skógur þar á landi
Og skyggnast mundu halir þangað að —
Og frjettust um þann fjölda, er þar standi
Með furðulátum — enginn vissi það; —
En Oddur gat þess, að þar hátíð væri,
Og ættu menn á landi mikið blót,
Og bjó sig til, að fljótt á land hann færi,
Hann fýsti mjög að kanna Bjarma sjót.

XXXIII.

Hann mönnum bauð, að gnoða skyldi geyma,
Og gekk á landið, Ásmundar við hlið —
Runnin var sól í Ránar dimma heima,
Og rökkrið leið á dal og fjalla-rið; —
Þeir gengu fram með Vínu bökkum breiðum,
Og bar þá skjótt í ljósum húinn rann,
Er skýldist fyr af skuggalegum meiðum,
Úr skugga nætur störðu þeir á hann.

XXXIV.

Þar sátu menn við borð, til beggja handa,
Og bergðu kátir silfurhorni á,
En skapker eitt í skugga sá þeir standa,
Því skýldi hurðin hjörtum ljósum frá —
Og mann einn sá þeir mjöði hornið fylla,
Sem margopt kúgað fylltist skjótt á ný,
Varlega opt hann hlaut sín stig að stilla,
Að steyptist ekki vínið út úr því.

XXXV.

„Sjerðú þann mann, er mjöðinn dökkva veitir"
Svo mælti Oddur — „bíð þú litla stund,
Af öli munu ýtar flestir teitir,
En eg mun reyna að taka geira-þund —
Því grunar mig, að mæla kunni hann
Á máli voru einn í þessum rann,
Og gott það mundi', ef gætum vjer hann frjett
Hvað gildi hafi í kvöld hjer verið sett".

XXXVI.

Byrlarinn vissi' ei fyr en brást hann skjótt
Að bitum upp í rjáfurs hallan stað,
Brá honum Oddur út í dimma nótt,
Með öskri hann um trölla-læti kvað, —
Upp þusti hart og út úr húsi drótt,
Til ónýtis og þreytu varð þeim það;
Því Oddur þá með byrlaranum barði,
Og bar hann út á skip úr þeirra garði.

XXXVII.

Nú er upp komnir vóru' á þiljur þeir,
Þráðu þeir allir byrlarann að frjetta —
En hann var þögull, eins og dauður leir,
Og orðum ei hann vildi af munni ljetta.
En Oddur kvað hann ekki þurfa' að þegja
Og þrjózkast svo, sem væri yrt á stein,
Hann bauð, að hann þá verum vildi segja,
Hvert vest þeir fengi Björmum unnið mein.

XXXVIII.

Byrlarinn lauk þá loksins sinni þögn,
Og leiddi smeikur að því neydda ræðu,
Að fylgdu Björmum ferleg töfra-mögn
Með feikna-kröptum, og með tjóni skæðu —
Í augnabliki því á Odd hann leit,
Og allt í einn dreyra-rót varð heit,
Því Oddur stóð með augu hvöss og hörð,
Og hjörvi studdist — oddur falst í jörð.

XXXIX.

„Haugur er nokkur hjer við ægi-sand,
Er helgan kalla allar Bjarma-þjóðir,
Þar geymist hver, er gumna kveður land,
Og grafinn verður djúpt í foldar-slóðir; —
Af hlutum tveim er haugur orpinn sá:
Af helgri mold, og ljósu silfri með —
Þeir hella því úr höndum sínum, þá
Er halur deyr, og barn fær ljósið sjeð“.

XL.

„Kanna vjer munum silfurs helgan haug“,
Í huga glaður þá nam Oddur mæla,
„Vjer munum þaðan margan flytja baug,
Sem má ei neinn í foldar-djúpi tæla; —
Förum á morgun, frændur, þegar lýsir,
Og fáum leiðsögn hyrlaranum hjá,
Því hjer að vinna frægð og auð mig fýsir,
Og fjölkynngina Bjarma' að leika á“.

---

## ATHUGAGREINIR.

Vers IV, 3. línu: hausabjarkir, eru drykkjar-horn, eins og hjúgviðir hausa (í Kráku-málum).

— VIII, 5. línu: mýrtus-dal, mýrtusviður vex i suðurlöndum, og er einn af þeim viðum, sem einkennilegir eru fyrir Valland og Spán.

— XII, 8. línu: skilfingur, þ. e. konungur.

— XVII, 8. línu: kvernbítur = sverð; orra-bál = bardagi.

— XVIII, 6. línu: ýmugjarn = gjarn á orrustu (ýma); brandur = sverð.

— XXV, 6. línu: oddur = ör. 7. l.: Gusi var Finnakonungur (sjá sögu Ketils Hængs).

— XXVI, 3. línu: álmur = bogi, álms þvengur = bogastrengur.

— XXIX, 8. línu: laukur = siglutrje, lauka-band = reiði, höfuðbendur.

— XXX, 1. línu: gammi = bær. 4. l.: skref = farangur, rusl. 8. l.: stafnareim = akkeris-festi.

— XXXI, 7. línu: þyn = á, fljót.

— XXXIII, 7. línu: meiður = trje.

— XXXIV, 3. línu: skapker (ekki skaptker) = ker til að ausa úr (sb. á þýzku schöpfen).

— XXXV, 4. línu: geiraþundur = maður.

— XXXVI, 5. línu: drótt, þ. e. mannfjöldinn.

— XXXVIII, 6. línu: dreyra-rót er hjer kallað hjartað, því það er miðbik eða eins og uppspretta blóðrásarinnar.

---

# ANNAÐ KVÆÐI.

## Bardagi við Bjarma. Örvar-Oddur.

I.

Gullfáinn röðull gekk af dimmri öldu,
Og geisla-rúmum skrýddi bláan sjá,
Og morgunblærinn ljek í limi köldu,
Og loptin himna voru skír og blá —
Þá heyrðist sverð við glæsta glymja skjöldu,
Er gengu menn í fylking skipum frá;
Fremstur í broddi fríðra gekk þar sinna
Frægastur Oddur, Grímsson loðinkinna.

II.

Fram gengu þeir, unz fyrir sjónum lá
Ferlegur haugur — nes gekk út í sjá,
Og aldan söng við háan hamra sal
Þar hreiður ótal gamma-lýður fal —
Þar horfði leiðið helga fram á mar,
Og hundrað feta upp á topp það var.
Þangað sjer vjek nú vaskra drengja fjöld,
Og vopnin af sjer lagði, sverð og skjöld.

III.

Þar faldi jörðin marga gripi góða,
Og gráa silfrið eins og máninn skein,
Er ferleg dregur fyrir skýja-móða,
Og fellur ljós í gegnum meiðar-grein —
Og málminn tóku mærar kappa-sveitir,
Og mundu sterkri lyptu sjer á bak,
Og hugðu vel að hefði tekizt leitir,
Því hraustlegt þókti slíkt í einu tak.

IV.

Þá litast Oddur um, og segir síðan:
„Nú silfrið hefur blindað okkur hjer,
Því byrlarinn er viðinn út í víðan
Víkinn á brott; og illa þykir mjer,
Að mæli ljet eg mitt á skipum frammi,
Því manna-fjöld eg lít á skógar-braut,
Nú víkur sjót úr viðar-runn' og gamma,
Nú vantar illa álm og Gusis-naut“.

V.

Nálgaðist bráðum Bjarma þjettur múgur,
Sem býja-fjöldi ryðst um morgun-stund —
Var sem því fylgdi sæfar-hljóð og súgur,
Og snerist fjall, og röðulskin og grund —
En Oddur vjek sjer út að sölum meiða,
Og ógurlega kylfu sjer þar hjó,
Um öxl hann gerði eikarstofninn reiða,
Í ítur-móði þá hans hugur hló.

VI.

En allt í einu dimmur skýja drungi
Úr drafnar-sölum sig á loptið hóf —
Og haf og láð hinn dimmi þakti þungi
Og þykkvum myrkva himinsalinn óf —
Og upp af hafi ógurlegrar dró
Undurdrynjandi skýja-þrumu hljóð,
Og leiptrið hvað á fætur öðru fló,
Sem færi um loptið Þór í ása-móð.

VII.

Og mökkva-fjöld um myrkra-geiminn óð
Í marar-gjálfri, sem við sjáfar-strönd
Drynjandi vekur ægir öldu-hljóð,
Er æðir hrönn um blóma-vaxin lönd;
En jörðin skalf, því skýja snerti rönd
Skörðótta brún á fjalla háum tindi;
Þá skulfu djúp, og stundu stjarna bönd
Í stríðum gjörningarma feikna-vindi.

VIII.

Bráðum þeir sáu, byrlarinn hvar stóð
Í broddi lýðs, er nálgast gerði þjóð;
Flúinn var hann, er rufu rekkar haug,
Og ræntu mörgum dýrum silfur-baug;
Sagt hafði' hann Björmum breytilegur frá,
Hvar bezt þeim mundi gefast þeim að ná.
Nú barst að Oddi Bjarma öflugt lið,
Bardaga girntist hann þá eiga við.

IX.

Og allt í einu lægði bylji bráða,
Og breiddi yfir þrumu-kyrðar draum,
Sem þagnar stundum loptið leiptur-fáða,
Og linar dimmum himinskýja glaum, —
En björt á meðan leiptra-dýrðin ljómar,
Og leggst á fjalla-hryggi mökkva-hvel,
En þung á eptir þrumu-röddin hljómar,
Er þreytir niður hret og skýja-jel.

X.

Sem lagar-bára sogast út af sandi,
Og sofnar Rán um skamma kyrðar-stund —
Ógurleg síðan æðir hún að landi
Og ógnar ferleg blóma skrýddri grund:
Eins þagði lopt í þungum jelja-draumi,
Og þandist yfir nætur-skuggi grár,
Þá heyrðist ekkert hljóð af randa-glaumi,
Nje hjörinn sást við skýin blika gljár.

XI.

Þeir námu staðar fram við bakka breiða,
Þar brunar Vína hart að djúpum sjá,
Þar autt var svæði dimmra milli meiða,
Sem mörgum blómum fagran skugga ljá;
En enginn fugl á greinum heyrðist hljóma,
Því hræddir grúfðust þeir í fylsnin smá,
Dofnaði litur dýrra foldar-blóma,
Sem drægi myrkvan nætur-skugga á.

XII.

En hinumegin Bjarma mikill múgur
Miðaði þjetta' og hvassa svínfylking —
Var sem um loptið færi flugna-súgur,
Og fold og ægir snerist allt í kring.
En Oddur mönnum fylkti frægðar-drjúgur,
Og fram ljet ota hverjum orra-sting,
Og langa röð hann rekka setti í,
Og rammt þá bað ei hræðast Bjarma-þý.

XIII.

Svo biðu þeir, en háða fljótið skildi —
Barst ei um loptið nokkurt þrumu-hljóð,
Þegjandi leiptra-fjöldinn feikna-tryldi
Funaði samt um dimma himin-slóð.
Þá sýndist Oddi, eins og fljótið stæði,
Sem aldan hætti strauma-hvörfum blám,
Var sem að menn í hylji horfa næði
Hafgræna, klædda þoku-skuggum grám.

XIV.

En upp úr djúpi dvalar-þungrar móðu
Með dauða-gusti ruddist svipa fjöld;
Náfölvum þeir sjer hver á annan hlóðu,
Og hnigu aptur nið'r í unnar-tjöld —
Og allir þeir á Odd og menn hans litu,
Sem æsktu þeir að finna kappa þjóð —
Var sem þeir nokkra stund á straumi flytu,
Og steyptust síðan nið'r í þoku-flóð.

XV.

Mátti þar líta marga svipi dauða —
Meinkvalið bros hjá gnístri leika tönn,
Samdregin munn af sárum dögum nauða,
Sveipaða kinn, sem dauða-línin grönn,
Starandi auga stæltum undir brúnum
Stynjanda svipi sumt við kinnar lá —
Var sem að barin væri' af dauða lúnum
Vargslitin, hol og djúp, á sumum brá.

XVI.

Skelfdust þá Norvegs hraustar hetju-sveitir,
Hafði ei nokkur fyr þess líka sjeð;
En huga Odds ei hræðsla nokkur breytir,
Og hreysti kappans ekkert bugast rjeð —
Á drauga-múginn nokkra stund hann starði,
Og studdist eiki-kylfu sína á,
En snerist brátt að settum hildar-garði,
Og seggjum innti viturlega frá:

XVII.

„Ei munu Bjarmar betur á oss vinna,
Þó breyting sjóna fremji göldrótt þjóð,
Því þessi fjöldi fölra Heljar-sinna
Er fjörvi sviptur, hreysti, afli' og móð, —
Skulu ei drauga skatnar eina flýja,
Nje skruðning einn, þó dragi yfir senn;
En berjum fast á blauðum sonum þýja,
Svo Bjarmar kynnist lítt við Norvegs menn“.

XVIII.

Seinast er Oddur mælti orð af munni,
Mökkvanum ljetti skógar-sölum frá,
Og hópa nýja hverjum út úr runni
Við herinn Bjarma tengjast nú þeir sjá —
Og nýir svipir upp úr ánni liðu,
Og aptur hvurfu — nýir svifu fram —
Hetjurnar þannig eptir Björmum biðu,
Og bláir hjörvar vöktu skjaldar-glamm.

XIX.

Loks hætti þögn — og þrumu-röddin dundi,
Og þungum drunum yfir löndin sveif,
Var sem að rifna rjáfrið himins mundi,
Og ryðjast tindur nið'r í hamra-kleif —
Slagriðum undir sjerhver hamar stundi,
Er svartan mökk á himni leiptrið reif;
Augnablik hvert ljet nýjan blossa-brand
Bremanda þjóta yfir haf sem land.

XX.

En yfir fljótið, þokn þunga huldir
Þegjandi svifu Bjarmar áfram þá
Með göldrum þeim, sem dróttum eru duldir,
Dimmleitum mekki snöggt þá af þeim brá.
Þá Oddur bauð, að opnast skyldi liðið,
Og endi-löngum röðum víkja frá,
En Bjarmar mitt þá sigu inn í sviðið,
Og snildin ljek þar fjölkynngina á.

XXI.

Þegar þeir sáu þjóð að hliðum báðum,
Þinguðu þeir um eitthvað litla stund,
Og byrlarinn með orðum flærðar fáðum
Fram síðan gekk, með silfurgeir í mund:
„Vjer viljum, kappar! kaup við yður eiga,
Sem kunni engin maður slík að fá:
Þjer látið burtu hjörva' og hildar-fleiga,
En hraustir fáið silfur-skildi gljá".

XXII.

Brosti þá Oddur byrlarans við ræðu,
Og Björmum svarar hann á þessa leið:
„Ei þekkjum vjer í skálma-jeli skæðu,
Hvað skötnum dugi silfurvopnin breið —
Sigurinn býr í járni og stæltu stáli
Og sterkum hug, en ei í silfri og flærð —
Hvorttveggja vjer með Óðins bitru báli
Á burtu flytjum — það þú finna nærð".

XXIII.

Þá gengu fram í grimmum hugar-móði
Garparnir Odds, og Björmum lömdu á,
En und þar gerðist engin roðin blóði,
Því ekkert bitu sverð úr járni þá —
En sjerhvert högg, sem viðar-kylfan veitti,
Sem veifði Oddur ljett í sterkri hönd,
Það lífi skjótt í lágan dauða breytti,
Og lagði margan ná að Vínu strönd.

XXIV.

Svo lauk, að Bjarmar fyrir Oddi flýðu,
Og fögur vopnin Norðmenn tóku þar,
Og báru silfrið nið'r að fleyi fríðu,
Og festar leystu, og hjeldu út á mar;
Komu þeir aptur fljótt að Finna-slóðum,
Og festu skip um heiðríkt sumar-kvöld,
Og skemmtu sjer með Rínar glæstum glóðum
Og glaðir drukku þá við skipa-tjöld.

XXV.

Þá hverfðist sól að myrku drafnar djúpi,
Þar drauma bláa hverful geymir unn —
Og nóttin fjöll og dali huldi hjúpi,
Og hnign skuggar nið'r í meiðar-runn —
Þá brosti sól, og brostu hlíðar móti
Í blænum gullna himin-sölum frá, —
Þá brosti sær, en hlógu hátt í fljóti
Háværir fossar niðarstrengjum á.

XXVI.

Aleðlið mærum undið var þá draumi,
Og allt þá mundi svefna-hvíld sjer fá,
Er hetju-þjóðin minntist glöðum glaumi
Á glæstan sigur, og á orra-þrá.
Baugarnir hjengu á hverjum segla-taumi,
Hvívetna á þiljum fagurt silfur lá
Og ljóminn skein á löngum marar-straumi,
Og lagði vítt um himin skipum frá.

XXVII.

En hinnstan þegar himinroðans ljómi
Ljet hlæja geislann, sem að hurtu fló,
Þá heyrðist bresta ógna-háum ómi
Óttalegt hljóð um land og djúpan sjó —
Blástjörnu djúp sem bresta mundi sundur,
Og hella stjarna fast á kletta-þró;
Skelfdust þá menn við skýja ferleg undur,
Og skelfdur ægir kaldabrosi hló.

XXVIII.

Um langan tíma ljeku Ránar dætur,
Og lagar-falls ei kenndu nokkurn veg —
Og hljóðið leið við langar fjalla-rætur,
Unz leið fram aptur kyrðin tignarleg.
En lítið ský þá leið á mararbrúnum,
Þar lítill bjarmi dagsins vakti enn,
Og smáum dreifa sýndist loga-rúnum,
Og sáu það með undrun Norvegs menn.

XXIX.

En Oddur bauð, að styrkja skyldi strengi,
Og stagi remma fast á hverri skeið;
Og gat hann þess, að líða mundi ei lengi
Í lopti stund með kyrðar-anda heið,
Því hvin og brest á himins bláu vengi
Hann hjelt að boða mundi jelja-reið —
Tíföldum þunga tengd nú gnoðin var
Titrandi fast við marar-bárurnar.

XXX.

Á meðan varð að mekki skýið þunna,
Og myrkva yfir himin allan dró,
Og lagðist þungt á beðinn blárra unna,
Og blossa-mergð úr skýja-gjálfri fló —
En vindur reis, og víðan æsti sjó,
Og velti bárum upp úr djúpum grunna,
En Þór í drunga sollnum duna móð
Drynjandi vakti þrumu-hljóð.

XXXI.

Enginn þá mátti akkers halda strengur,
Upp sleit því fley, og rak þau landi frá,
Gliðnuðu borð og ginu langar rengur,
Er gægðust unnir hátt úr djúpum sjá;
En samt í veðri skipin ekki skildi,
Þó skylfi hlýr, og brysti sjerhver rá —
Langaði kappa að heyja fremur hildi,
En hrakning slíkan út á mar að fá.

XXXII.

Kallaði Oddur gegnum gjálfrið óða
Og görpum opna þilju-hlera bauð,
Og kasta út í djúpin drafnar-flóða
Dýrindis-grip og miklum víkings-auð —
Finnskrefið allt þar flang um lagar-vegi
Og förum vinds og sæfar þreytti mót,
Því Finnar æstu storm á ströngum legi,
Að stríðelfd göldrum hefnt sín fengi sjót.

XXXIII.

Svo bárust fley um bláa lagar öldu
Unz bjarmi dags af unna-hryggjum leið,
Og sá þeir land, er lá hjá djúpi köldu,
Og lögðu að með stafnabjúga skeið —
Þar voru skógar inni' í skuggum bjarga
Og skrýddar grundir jarðarblómum smám,
Á kvistum fugla heyra mátti marga
Munarheims ljóðin rómi stilla hám.

XXXIV.

Reist voru tjöld hjá Ránar gljúpum slóðum,
Og rekkar bjuggust þar að eiga dvöl;
Með dýrum krásum og með drykkjum góðum
Dúkana þöktu þeir á sjáfar-möl —
Lifað var glatt, því liðin var á enda
Lífshættan ströng, og skatnar sátu' í hring,
Bikara tæmdu, úr rauðu gulli renda,
Og reyktir bógar gengu fast í kring.

XXXV.

Einn dag þeir sáu, að gekk að fjörum fram
Ferlegur björn, og strax tók Oddur boga
Og stríðan þá hann strenginn gerði toga
Og stefndi flaugum undir bessa hramm.
Flá ljet hann síðan belg af birni þeim,
Og búkinn tók, en setti mold í staðinn,
Uppreistan ljet hann bessa blína heim
Í bjarga-sal, þó af honum væri hraðinn.

XXXVI.

Þar dvöldu þeir, og dagar nokkrir liðu,
Og dróttir engar þeir á landi sá, —
Þá fýsti Odd að kanna víða viðu,
Og vitund nokkuð meiri um skóginn fá; —
Ásmundi með hann reri burt á báti,
Með björgum fram, að kanna betur láð —
Á meðan dvaldi drengja-herinn káti
Í dúka-húsum, reistum fram við gráð.

XXXVII.

Bar þá nú skjótt að baki dökkra hamra
Að bjarga-sal — þar gat að líta sjót —
Stórvaxna þjóð með gildum orðum glamra,
Svo glumdi hátt í dimmri fjalla-rót;
Löfðu þeim nefin loðna o'ná bringu,
Og leizt ei vör til ástarkossa fær —
Hugðust þeir Oddur eygja sjónhverfingu,
Og ótt því reru báti sínum nær.

XXXVIII.

Sáu þeir þá, að rammar risa-þjóðir
Rjeðu þar löndum — stórra seggja fjöld,
Sem rauðar átti Rínar-málma glóðir,
Og ræddu um Odd og þeirra skipa-tjöld —
Þeir Oddur árum uppi hjeldu hljóðir,
Og hlustuðu' á, um þögult sumar-kvöld,
Hvað risa-herinn rammur mundi tala —
Þá ræddi einn af búum hamra-sala:

XXXIX.

„Kunnugt er oss, að komin eru hingað
Kögurbörn nokkur, Norvegs landi frá,
Og væri gott, ef vjer nú fengjum þingað
Um vænleg ráð, svo mættum vjer þeim ná;
Hringur er hjer, af gulli rauðu gerður,
Er gefa mun jeg þeim, er þangað fer,
Því oss mun sætur af þeim veitast verður,
Ef veri þessa nokkur hingað ber“.

XL.

Þá gekk fram kona, gild og stórmannleg,
Sem girntist hringinn rauða mjög að eiga —
Sagðist hún kunna víst að rata veg,
Og væskla þessa hingað flytja mega.
Strax reri Oddur undan landi þá,
Óðfluga bátur sljettan knúði mar,
Teinþanin unz þeir tjöldin máttu sjá,
En tífalt seinni risa-sprundið var.

XLI.

Stefndi nú Oddur upp á land, þar gein
Útþaninn strítt af þessa hamurinn,
Einn setti hann þá upp í dýrið tein
Svo ógurlega gapti skolturinn —
Lagði hann síðan eld í kjálka kró,
Og kænn í huga eptir sprundi beið,
Stálydda ör þá fyrir odd hann dró,
Og ætlaði henni brátt að vísa leið.

XLII.

Stikaði skessan stórum fetum nær,
Og stefndi dauða bjarnar-haminn á —
Logaði eldur dýrs í gini glær;
Girntist hún betur þenna hlut að sjá.
En allt í einu hún að heyra fær
Hvininn af ör, og lófa fyrir brá,
Fjell niður skeyti, og fjekk ei unnið mein,
Það fór sem kæmi það á harðan stein.

XLIII.

„Nú skyldi reyna góðan Gusis-naut“.
Göfugur Oddur hissa mælti þá,
Og einum þeirra hann á skessu skaut,
En skessan aptur lófa fyrir brá.
Miðaði Oddur Hremsu beina braut,
Og broddinn hennar ekkert standast má:
Í gegnum lófann, og í glyrnu þró,
Og geyst á bogann aptur, skeytið fló.

XLIV.

Þá tók hann aðra, og teygði boga-streng,
En teinninn ótt í gegnum loptið flaug —
Þá glumdi við, er kipptist ýr úr keng,
Og knáleg örin gegnum loptið smaug.
Núna brá skessan fyrir hægri hönd,
En hart í gegnum lófann skeytið brauzt,
Auganu þeytti út á vanga-rönd —
Aumingja sprundið varð þá sjónar-laust.

XLV.

Sneri hún aptur, sorgum miklum þjáð,
Og sá ei neitt. En Oddur niður fór,
Þar tjöldin voru sett við sjáfar-gráð,
Og seggja hranstra jókst nú kætin stór;
Leyst hafði Oddur enn úr vanda þá,
Við öllu kunni ráðin hann að ljá. —
Nú liðu skuggar yfir skóg og mar,
Og skatnar tóku á sig náðirnar.

XLVI.

Um morguninn, er dagur sveif á sali,
Þá settist Oddur enn í lítinn bát,
Og vildi hlusta eptir ímа tali;
Á öllu þurfti nú að hafa gát.
Reru þeir enn að bröttum bjarga-leynum,
Og bráðum sáu stórt á landi þing —
Heyrðu þeir tal af hamra-búa einum,
Sem hjelt þar ræðu um vansa og svívirðing.

XLVII.

„Ófært er það, að á oss svo þeir leiki,
Allhægt mun oss að sigra greppa þá,
Og einn af þeim í aptans-verð eg steiki,
Og ágæt verka-laun þeir af oss fá“.
Af dimmri röddu drundi þá í hamri
Og dökkri endursöng í kletta-borg,
Er þussa-herinn gauli með og glamri
Grenjandi rak upp heiptar-org.

XLVIII.

„Hafa þeir dýr“ — svo hjelt hann áfram ræðu —
„Sem heitri glóð og skörpum örvum blæs,
Af því vjer urðum fyrir tjóni skæðu:
Augunum rennið þjer til þessa hræs! —
Göfugri konu og gildastri í hamri
Gerði það dauða, en vinum hennar sorg“.
En jötna-herinn gauli með og glamri
Grenjandi rak upp heiptar-org.

XLIX.

Þá mælti annar: „megið þjer ei líta
Að menn á báti heyra okkar tal?
En æfi þeirra eg mun reyna að slíta,
Svo aldrei framar bera nái fal;
Og ef þeir komast undan minni hendi,
Þá er það víst, að það er goða ráð
Að hjer sje þeirra ekki æfi-endi,
En öðrum rúnum mun hún vera skráð“.

L.

Svo mælti hann, og hóf í sterkri mundu
Frá hauðri upp í loptið feikna-stein,
Og tryltur sendi hann á samri stundu
Á sjáfar-flöt, svo hátt í lopti hvein —
Á Odd hann stefndi, er bjarga brúnum undir
Á báti heyrði ferlegt þussa-tal —
Þá brosti þuss, og hlógu jötna-hrundir,
Er hellan þaut um víðan stjörnu-sal.

LI.

En Oddur lítið undan vjek á báti,
Svo ekki lenti bjargið honum á —
Þagnaði snöggvast þussa-herinn káti,
Og það nam undrast, er að sjónum brá;
Því bjargið ekki bátnum kunni' að granda,
Og bjargið annað sendi þussinn þá —
Og þriðja til, en traust nam Oddur standa;
Titraði af reiði þussa-grúinn há.

LII.

Þá æstist sjór, og alda hófst á mari,
Er unnir nið'r í hellusteininn skall,
Stórsjóum með og stríðu brims í fari
Í stórum hringum Ránar iða svall.
En þegar loksins þussa-greyin sáu,
Að þetta gerði Oddi ekkert mein,
Þá stóð upp einn, og barka-hljóði háu
Hjelt þessa ræðu, og vítt með tönnum gein:

LIII.

„Það sjáum vjer, að slíkt má ekki duga,
Því seggjum þessum vinnum vjer ei grand;
Og goða ráð má garpur enginn buga,
Nje gildlegt slíta örlaganna band —
Veit jeg nú glöggt, hvað halir þessir heita,
Sem hingað komnir eru nú á land,
Munu þeir auðs og meiri frægðar leita,
Og málminn Rínar finna eins og sand".

LIV.

„Ásmund eg kenni, Ingjalds hraustan niðja,
Og Odd, sem frægð á Bjarmalandi nam,
Örlaga dís mun ætíð traust hann styðja,
Og yfir sjerhvern jarðar hefja gram;
Ætlaðan honum aldur trúi' eg meira,
En öðrum mönnum hjer um jarðar svið;
Vænti eg mitt að mál hann kunni' að heyra
Um marar-flöt og dökkleit hamra-rið".

LV.

„Mun eg nú heiti lengja þitt, og láta
Lýðfræga nafnið minna á Gusis-naut,
Og Örvar-Oddur ei sinn hittir máta
Á allrar jarðar víðri frægðar-braut; —
Byr mun eg þjer eins bráðan, Oddur, gefa,
Og bylji þá, er áður fjekk þinn her,
En reyndú ekki sævar rok að sefa,
Því slíkt mun ekki ná að granda þjer".

LVI.

Reiddist þá Oddur — risann á hann miðar,
Og renndi skeyti hart af boga-streng,
Því launa vildi' hann byr, en biðjast friðar
Bannaði hreysti móður fræknum dreng;
Í gegnum tröllið, og á strenginn stríða
Með stormahvini örin gullna flaug;
Fóru þeir síðan Ránar vegu víða,
Og vel um sjóinn knúinn bátur smaug.

LVII.

Undu þeir seglin upp að gullnum húnum,
Og akkers ljettu þungum járna-flein,
Og hjeldu fram með dökkvum bjarga-brúnum,
Um báru-flötinn gnoða ljóminn skein,
Því fleyin voru fremd og gulli hlaðin,
Og frægðar-blikið sendist hetjum frá;
Og föðurláðs þeir stefndu nú á staðinn,
Og stýrðu fleyi' umölduhvelið blá.

LVIII.

En út' á sjávar dimmu þrungnu djúpi
Dynjandi fellibylur að þeim reið;
Umhverfðist Rán, og ljósum huldist hjúpi,
Og hvítan makka skók þá aldan breið;
Og eins og fyr í uppheimslopti bláu
Öskraði þruma', og leiptra-blossi hló,
Og lýsti hrönn á lagar-djúpi gráu,
Sem lamdi vindur og í sundur dró.

LIX.

En lengur vildi dísin drengi geyma,
Að dauða-gusti ei sá stormur varð,
Um regindjúp og Ránar dimma heima
Þá rammur vindur bar í föður-garð; —
Inn gengu menn, og munarvínið skæra
Af málmglóandi drukku veizluskál;
Þar mátti hluti marga í sögu færa,
Og minnast glatt á slokknað orra-bál.

# ATHUGASEMDIR.

V. I, línu 7, sinna, þ. e. fjelaga (sb. Heljar sinni, í Snorra Eddu, og í XVII. vísu).

— IV, l. 5, mæli = örvamælir. l. 7, gammi, sjá í fyrsta kvæði.

— V, l. 2, býja = býflugna. l. 4, meiða salir = skógur.

— VI, l. 2, drafnar salir = sjór, (dröfn = bylgja).

— VIII, l. 3, rufu = ræntu.

— X, l. 7, rönd = skjöldur.

— XII, l. 6, orra-stingur = spjót.

— XVI, l. 7, settur hildar garður er fylking hermanna.

— XXIV, l. 7, Rínar glóð = gull, auður.

— XXIX, l. 5, vang (vengi) = land, vang himins = himin.

— XXX, l. 7, duni = eldur (þetta lýtur að leiptra-fluginu úr skýjunum).

— XXXII, l. 8, sjót (eldri mynd: sjöt) = þjóð, menn.

— XXXVI, l. 8, dúka hús eru tjöld.

— XXXVIII, l, 3, Rínar málmur = Rínar glóð, v. XXIV.

— XLIII, l. 5, Hremsa var ein af Gusisnautum (Hremsa, Flög og Fífa, S. Ketils Hængs). l. 7, glyrnu þró er augnatópt.

— XLIV, l. 2, teinn = ör. l. 3, ýr = bogi.

— XLVI, l. 3, ímar = jötnar.

— XLIX, l, 4, falur er hjer hafður um allt sverðið.

— LVI, l. 8, knúinn, þ. e. af því honum var róið fast.

— LIX, l. 8, orra bál = stríð, bardagi.

---

# ÞRIÐJA KVÆÐI.

## Hjálmar.

I.

Þar dvöldu þeir, og dýrrar veizlu kæti
Drengirnir nutu um alla vetrar - tíð —
Í gullnum hornum glóði bjórinn mæti,
Og gildar krásir þöktu borðin fríð, —
En úti huldi fönnin fjalla - sæti,
Og frosti þrungin vetrar - jelin stríð
Með vinda gný og veðra þungu braki
Sjer veltu nið'r af hverju bæjar - þaki.

II.

Svo liðu dagar, lengdust röðuls baugar,
Og ljóma - ylur þýddi klaka - strengi,
Og fjellu niður fjalla bjartar laugar,
Og fjörvi glæddust jarðar - blóm á engi,
Í löngum fetum liðu báru - haugar,
Og ljeku sjer við sól á Ránar - vengi,
Þá Oddur vjek sjer einhvern dag að tali
Við ítran föður, háum inn' í sali:

III.

„Nú hef eg rændan baug af Bjarma - löndum,
Og borið heiður jaka - slóðum frá,
Hef eg það sýnt, að beita kann eg bröndum,
Og brögnum nokkur ráð í stríði ljá —
Fýsir mig enn, að reyna hjör á röndum,
Og rómu kanna meiri köppum hjá,
Vil eg því nú, að vísir þú mjer á
Þann víking, er þú mestan kannt að sjá“.

IV.

„Það er nú bæði“ — þá nam Grímur svara —
„Að þjer í hildar römmum standist leik,
En líka fýsir yður nú að fara
Er flest þjer kannið sár og líkin bleik —
Víkingur nefnist Hjálmar hugum-prúði,
Er hetju mesta um Ægis láð eg veit,
Og aldrei rann á Óðis hálu flúði,
En altaf sigur bar úr hjörva reit“.

V.

„Við hreysti-móð og krapta hans má engi
Sjer hölda jafna nú um alla jörð,
Í hildar leik á hrannar bláu vengi
Er hugró hans af stála-fetlum gjörð;
Og honum fylgir hraustast kappa-mengi,
Er hjörvum ann, og kennir blóðgan svörð;
Næst honum fylgja mun um rómu ramma
Rekkurinn frægi, Þórður stafna-glamma“.

VI.

„Konungur nefnist Hlöðver, hann á land
Þar halir kalla að búi Svía-þjóðir,
Þar sitja hetjur, meðan hauðurs band
Hyljast um vetrar-tíð með ísa-slóðir —
Á vörmum sumrum sigla þeir um mar,
Og safna hildar-frægð og rauðum baugum,
En hættulegt það hverjum þykir far
Hervíkings þessa' að freista' í branda-laugum“.

VII.

Þakkaði Oddur ítrum föður þá,
Og út á hafið tók hann sig að búa,
Kvaðst hann ei mundi kvernbíts flýja þrá,
Nje kappa hreysti raunum framar trúa. —
Lagði hann brátt á haf með fimmtán fley,
Og fríðan her, með sverð og glæsta skjöldu,
Hrafnistu bráðum hvarf þá köppum ey,
Og hófst og lagðist gnoð á blárri öldu.

VIII.

Um Ránar svið þeir ljetu gnoðir ganga,
Og geysa hrannar fax um kinnungs hvel,
Unz eptir ferð þeir loksins komu langa
Að landi því, er kenndu rekkar vel —
Í höfn þeir lögðu, og huldu þiljur tjöldum;
Og herskip mörg í lægi Oddur sjer,
Þar sem að rennir Rán af djúpi öldum,
Og rekkar kveða að liggi Elfar-sker.

IX.

En uppi' á landi sá þeir setta leiki —
Þá segir Oddur kappa sína við:
„Nú skulum reyna, hvert að frægð ei feyki,
Hvert fái staðizt þetta hetju-lið;
Á land vjer förum nú í fjórum hópum,
Og freistum, ef þeir renni hart að sjó,
Ef verða mætti, að fyrir hildar-hrópum
Þeir hræddir flýði', og brysti kappa ró“.

X.

Á land þeir fóru svo í fjóra staði,
Og földust allir skógar-leynum í,
Og vöktu skjaldar-hljóð með hvössum naði,
En hinir ekkert brugðu sjer við því;
Þá æptu þeir, en hætti herinn glaði,
Og hlustaði, eptir leyndum orra-gný,
En bráðum aptur byrjuðu þeir leika,
Bardaga-ópið gerði þá ei smeika.

XI.

Þá gekk fram Oddur — hlógu brynju bogar,
Og bunga hjálms, með rauðu gulli fáð,
Er fram um himin svifu sólar logar
Og Svasuðs klæðum skrýddu haf og láð;
Við síðu hans var Óðins lagður logi,
Með loga-rúnum greyptur allt í kring,
Í sterkri mundu glóði bentur bogi
Er bezt af öllum kenndi Gusis-þing.

XII.

En fram úr hernum hinna snúðugt gengur
Með hvelfdan skjöld, og dreginn griffon á,
Allur með stáli hulinn hildar drengur;
Harðlegum augum renndi kappi sá;
Bauð hann að skemmtan skyldi ei vara lengur,
En skálmar dragast bognum sliðrum frá,
Búnar að laugast dreyra', er sverðum svalar —
Siklingurinn við Örvar-Odd þá talar:

XIII.

„Freistarðu' að skelfa Hjálmar hugum-prúða
Með hildar gný, og skjaldar dimmum óm'?
Á loga slóð og láðum Óðins flúða
Ei lið hans rann við óp nje hljóðin tóm. —
Hverr ertú? hvaðan komstu' af Ránar vengi
Með hetju-móð og gulli fáða skálm?
Lízt mjer að kunnir þú á orra engi
Að efla hríð og benda stæltan álm".

XIV.

Þá mælti Oddur, ítrum þrungin móði:
„Ókunnug var mjer hvergi loga slóð,
Fegurst er list að rjóða brand í blóði,
Og bauga lita dökkt við hjörva flóð;
Nafn mitt er Oddur — þig mig fýsti' að finna,
Og ferlegt með þjer vekja skjaldar hljóð,
Og reyna það, hverr kalla má sig minna,
Því mjög þig lofar sjerhver foldar þjóð".

XV.

Aptur þá Hjálmar hildings ræðu svarar:
„Hvert ertú sá, er fór til Bjarmalands,
Og frægur er um fold og vegu marar
Af fölvis leik við þjóðir galdra-ranns,
Hvert ertú sá, er rammar risa-þjóðir
Ráðsnjallur fann á huldri eyja-braut,
Og fjekk þar nafn, er festu garpar óðir,
Af fránum, stáli lögðum Gusis-naut?"

XVI.

Þá mælti Oddur: „sá er maður sami —
En senn skal byrja geysta flauga-hríð,
Með fimmtán skip vjer förum móti grami,
Er fyrri þoldu jel og veður stríð;
Tífaldur her þó trölls í grimmum hami
Titrandi af bræði vekti orra-tíð,
Þá held eg eigi hjeðan burt með fley,
En heldur fyrir bæsings egg eg dey“.

XVII.

Þá svarar Hjálmar, þrunginn hildar-móði:
„Þrefalt vjer meira höfum skipa-lið,
Og aldrei rauð eg brand í dökkvu blóði
Ef bragna átti eg aflaminni við;
Þrjátíu skipa skulu á meðan bíða,
Því skötnum jafnir höldum vjer á mót,
Og reynum þá, hvert má um vegu víða
Að veldi og frægð oss meiri finnast sjót“.

XVIII.

Gengu þá skatnar nið'r á fleyin fríðu,
Og fast þeim lögðu hvert við annars borð;
Byrjaði gnýr með branda-veðri stríðu
Svo bárust hljóð um mar og víða storð,
Þar mátti líta marga slitna hjálma,
Og marga brynju klofna hvössum brand,
Og marga brostna meginstælta álma,
Og margan hniginn dreng á Óðins land.

XIX.

Svo börðust þeir, unz röðull rann að ægi,
Og roða-skuggum upp á himin brá,
Þá hættu þeir, og skipum lögðu í lægi,
Og ljúfar náðir tóku menn sig á,
Og þeir sem fyrri brand og blóðga strauma
Og bana-hljóð í sverða reyndu þrá,
Þeir undu nú við hvíld og dökkva drauma,
Og dvalar-öldur svefnsins báru þá.

XX.

Þá fyrsti geisli mærrar morgunsólar
Úr marar-djúpi rann á himna-slóð,
Þá risu sínum rekkjum upp úr sjólar,
Og reyna vildu aptur skálma-ljóð;
Þá dundu lúðrar, ljeku geislar sunnu
Á lögðum skjöldum, og á brynjum grám,
Og morgunljómans glæstir blossar brunnu
Á bungum hjálma á kappaþjóðum hám.

XXI.

En Óðinn sat í sæti himins háu
Og hildar-leikinn glaður á hann leit,
Og Saga sat hjá strauma-bliki bláu,
Og blossa-stöfum fáði minnis reit,
Því frægstir þeir, er fundust þá með þjóðum
Með fáðum bröndum vöktu skjaldar-hljóm,
Sem aldrei hvarf af hálum tíðar-slóðum,
Nje hvellan missti frægðarinnar róm.

XXII.

Valkyrjur svifu þá á vængjum breiðum
Um víðan geim, og kusu fríðast lið,
Og fallnar hetjur leiddu þær á leiðum,
Er liggja um heiðríkt frægðar-boga svið, —
Af gígna-hljómi í víðri Valhöll glumdi,
Og veizlu-kæti stóð með Ásum þá,
Og dólgur jötna dimmt af gleði rumdi,
Er drengir bergðu goðadrykknum á.

XXIII.

Svo börðust þeir, unz röðull rann að ægi,
Og roða-skuggum upp á himin brá,
Var sem á blóðga hauga halir sæi
Er hetjudreyrinn leið um öldur blá;
Og fallna kappa faldi lagar-bára,
Sem fyrri mörgum dauða-leiði bjó;
Og loksins gættu garpar djúpra sára,
Er gildur fleinn í skjaldar-rómu sló.

XXIV.

Þá gekk fram einn, sem æ um rómu ramma
Roðaði brand í margri djúpri und,
Þjóðkunnug hetja, Þórður stafna-glamma,
Og þá nam kalla yfir marar-sund:
„Hvert viltu, Oddur, að vjer lengur leikum
Um lífið, sem að norna-vald oss gaf,
Og viltu fleirum varpa náum bleikum
Í vota unn, og ferlegt dauða haf?“

XXV.

„Er mikið fje, er gnoðir yðar geyma?
Því gull og auður vekja hildar-leik,
Og ginna oss á dökkva hramar heima,
Og hvetja oss að skoða líkin bleik;
Nú hefir mækir sjer í undum svalað,
Og sökkt í unnir mörgum fölvum ná“. —
Er hetjan hafði þessa tölu talað,
Tíginn nam Oddur honum svara þá:

XXVI.

„Ekkert er fje á öllum vorum skeiðum,
En yðar lof vjer frjettum vítt um heim,
Og það vjer heyrðum, að með bröndum breiðum
Þjer byggjuð öllum rúm um Heljar-geim,
Vjer girntumst frægð og gildan auð að hljóta,
Og gráan reyna' í stríði brynju-hring,
Vjer girntumst yðar frægð á bak að brjóta,
Og beita hjör, og skörpum orra-sting“.

XXVII.

Þá mælti aptur Þórður stafna-glamma:
„Af þráa' og heimsku eflum vjer þá stríð,
Og drepum menn, og látum rómu ramma,
Randir og hjörva vekja sorga tíð;
Betra er oss að bjarga gnoð og fjörvi,
Og binda sátt með föstum víkings-eið,
Því enginn fyr svo hart oss ljek með hjörvi,
Sem hreysti þín, á marar víðri leið“.

XXVIII.

„Lát oss þá heyra“, Örvar-Oddur svarar,
„Hver yðar lög í víkings sjeu tíð“ —
Þá reis upp Hjálmar, hlógu dætur marar
Við hlífablik og skjaldarmerkin fríð —
Og hljómur glumdi hátt frá mætum sjóla,
Því hörpu sló hann, sem hann veifði brand',
Og víkings-lögin vel um söngva-stóla
Hann vaskur kvað, svo barst um haf og land:

XXIX.

Þegar heiðríkju sól roðar himnanna ból,
    Og sjer hellir í geislum á sæ
Þegar hljómandi hrönn verður hvít eins og fönn
    Þá vjer herðum á strengjunum æ.

XXX.

Þó að hverfanda hvel sendi harðsnúið jel
    Nið'r á hauður og bylgjandi sjá,
Þó að hvíni í voð, þó að hrikti í gnoð,
    Þá vjer hefjum ei seglin af rá.

XXXI.

Munum meyjar í sal, og það munarheims-tal
    Sem að meyjunum fengum vjer hjá,
En vjer gleymum ei gunni, nje gínandi unn,
    Eða geirum og hjörvunum blá.

XXXII.

Ekki hrundin í stríði má hertakast fríð!,
    Það er helfarar fullkomin sök;
Ekki kaupmanna för skulu knýjast af hjör,
    Það vjer köllum æ hugleysis tök.

XXXIII.

Ei skal hörpunni gleyma nje hljómanna seim,
    Það má hugga á leiðinda tíð;
En hún hætti með söng þegar herópin löng
    Boða helju, og nálægist stríð.

XXXIV.

Ekki flýjum vjer stríð eða flauganna hríð,
Ei af fjandmönnum þiggjum vjer grið;
Og þó helmingi fleiri sje hraustlegir þeir,
Þá vjer hættum ei víkinga sið.

XXXV.

Og um freyðandi sjá förum skeiðunum á,
Þar til fáum vjer heiður og auð;
Aptur höldum vjer heim þá með hertekinn seim,
Og með hervopn af dreyranum rauð.

XXXVI.

Þagnaði Hjálmar, hörpu leiddur ómi.
En honum Örvar-Oddur svarar þá:
Líkar mjer vel í stríðum hildar hljómi
Með hætti slíkum vald og auð að fá;
Fóstbræðralag vjer festum þá með eiðum,
Og förum allir samt um Ránar leið,
Með einum hinga veifum bröndum breiðum,
Og bjarta frægð svo hljótum vals um skeið".

XXXVII.

Ráðið var nú, að rekkar skyldu halda
Þar ríkur Hlöðver átti Svía-land,
Með skipa-stól og víkings-liðið valda,
Sem veldi hafði mest um eyja-band, —
Nú söng í rá, og segla þutu strengir,
Og sjóinn klauf með afli gnoða fjöld,
Þó margir væri mætir fallnir drengir,
Og myrkva huldir, djúp við unnar tjöld.

XXXVIII.

Súganda hljóði söng við stefnið alda,
Og soga-rákir fley með kili dró,
Og glatt nam senda sól á hjálma-falda
Svífanda blik, er skært við boga hló;
En Hjálmar stóð með hugar þungum móði,
Sem horfin væri ítur kappa-ró,

Í hraunar söng hann sætum kvað með óði,
Og silfur - strengi glæstrar hörpu sló:

XXXIX

Sem deyi máni
Á döggu skær,
Sem unnin bláni
Í blossa tær,
Sem dvíni bauga
Á bliki sól:
Eins er það auga,
Sem ástin ól.

XL.

Sem alda þrungin
Á ægis slóð,
Sem skjöldur, slunginn
Með Sjafnar glóð,
Sem hjálmar breiðir
Á hetjum gljá:
Eins bunga leiðir,
Sem brjóstið á.

XLI.

Sem sólar - vendir,
Er sumarkvöld
Í heiði sendir
Á himna - tjöld:
Eins blossa rósir
Á bjartri kinn,
Og logar ljósir
Við lokkinn þinn.

XLII.

Sem fönnin tindrar
Á fjöllum hám,
Sem faxið sindrar
Á sævi blám,
Eins má jeg líta
Und meiðum báls

Þinn ljómann hvíta
Um ljósan háls.

XLIII.

Sem svanur sitji
Um sumarkvöld,
Og söngva flytji
Um sólar-tjöld:
Eins situr meyja
Á sælli tíð —
En dagar deyja
Með deilin fríð.

XLIV.

Svo glumdu strengir mætri hetju hjá,
Og hljómur burtu sveif í öldu-hljóðin,
En Oddur kunni engan skilning fá,
Hvað ættu' að merkja þessi sorgar-ljóðin:
„Því ber þú sorgir, Hjálmar hugum-prúði!
Og horfir þögull fram á æstan sjá,
Sem ítra frægð og auð þjer mundi ljá,
Er ægis þungri hefstú upp af brúði?“

XLV.

Svaraði Hjálmar kappa frægum fljótt:
„Þú finnur eigi hjartans dimma nótt,
Þó vel þú þekkir hjör og hildar þrá,
Þá huga manns þú eigi þekkir á;
Söknuður, gleði' og ást, sem dögg í dal,
Sjer drauma-runna búa' í hjartans sal,
Slíkt kennir ekki kappa neinum gunn,
Þó kljúfi hann víðan sjó og fexta unn“.

XLVI.

Súganda hljóði söng við stefnið alda,
Og soga-rákir fley um marinn dró,
Unz loksins fengu þeir í höfn að halda
Þar Hlöðver, ríkur Svía-stillir, bjó;
Upp gengu þeir að hallar háum sölum,
Þar hilmir sat við gullna veizlu-skál;

Blossaði á hetjum blik af gylltum fölum
Og breiðir skildir snertu Óðins bál.

XLVII.

Oddur og Hjálmar ítran hilmi kvöddu,
Undraðist hann, er kappann á hann leit,
En Oddur mælti, og mæra stillti röddu,
Sem mæla skal í fríðum siklings reit:
„Heill sjertú, Hlöðver, þengill frægstur þjóða,
Í þínum sölum drekktú glaður æ!
Að líta þig, og roðann Rínar glóða;
Sem ræður þú, jeg kom um víðan sæ“.

XLVIII.

Hetjunni aptur hildingur þá svarar:
„Hvert ertú sá, er fór til Bjarmalands,
Og frægur er um fold og slóðir marar
Af fölvis leik við þjóðir galdra-ramms?
Hvert ertú sá, er rammar risa-þjóðir
Ráðsnjallur fann á huldri eyja-braut,
Og fjekk þar nafn, er festu garpar óðir
Af fránum, stáli lögðum Gusis-naut?“

XLIX.

„Þykjumst eg kenna þig í hildar-hami,
Harðstæltan álm þú berð í styrkri mund„;
Þá mælti Oddur: „sá er maður sami,
Er sjótir tryldar fann á Bjarma grund“.
Hjálmar og Oddur hilmis þá við síðu
Hásæti settust gulli fáguð í,
Og skatna liði skipað var þá fríðu
Um skjöldungs höll, og byrlar veittu því.

L.

Opnuðust dyr með eldi hrannar súnar,
Og inn í salinn gengu meyjar tólf,
Purpuralit og ljósum blæjum búnar,
Að buðlungs sæti liðu þær um gólf;
Sem morgunstundin mæra geisla leiðir
Á munarvængjum upp á himna slóð,

Og tignum fetum færast ljósa-reiðir:
Eins færðist áfram bjartra snóta þjóð.

LI.

Ein bar þar samt af svannaflokknum mæra,
Sólbjartur skrýddi höfuð laufa-krans,
Og augun, djúp sem öldusviðið mæra,
Alskær á nýjar sveitir horfðu ranns;
Sem bára fáð af bliki aptansólar,
Bylgjaði hárið nið'r á ljósan arm;
Sem andi í logni lagar bláir stólar,
Eins lyptist menið skært við hvelfdan barm.

LII.

Leit hún á Hjálmar, ljóst þá Oddur skildi
Þau ljóð, sem kvað hann fyr á gráum mar,
Gleymdi hann auði og ýmu-kátri hildi,
Því enga fyr að augum slíka bar;
En hún leit opt að björtu skjaldar skrúði,
Er skrýddi gull og steina-prýði mörg,
Og Hjálmar bar, en hann leit opt á brúði,
Því hilmis dóttir bezt var Ingibjörg.

---

## ATHUGAGREINIR.

V. III, 6. línu: róma = orrusta.

— IV, 2. línu: hildarleikur = orrusta (stundum hef jeg haft hildur fyrir orrustu, þó það sje eginlega hálfkenning). l. 7, Óðins flúð = vígvöllur; l. 8, hjörva reitur, sama.

— V, 4. línu: hugró er eginlega sverðsheiti; hjer er það haft fyrir (kaldan) hetjumóð.

— VI, 3. línu: hauðurs band = sjór. l. 6, rauðir baugar = auður, fje. l. 8, brandalaugar = stríð, (eginl. = blóð).

— VII, 3. línu: kvernbíts þrá = bardagi.

— VIII, 2. línu: hrannar-fax = froðan á öldunum.

— X, 3. línu: naður = sverð.

V. XI, 4. línu: Svasuður er faðir sumars, klæði hans má kalla fegurð sumarsins (sólarljóma). 5. línu: Óðins logi = sverð.

— XII, 2. línu: griffon er eins konar hræfugl (miðaldar orð).

— XIII, 3. línu: loga slóð = orrustuvöllur (logi = sverð); láð Óðins flúða er hjer haft sem kenning vígvallar.

— XV, 4. línu: fölvir = sverð. 8. línu: frànn = hvass.

— XVI, 2. línu: flaugn hríð = bardagi. 8. línu: bæsingur = sverð.

— XVIII, 8. línu: Óðins land = Óðins flúð (v. IV).

— XXII, 7. línu: dólgur jötna er Þór.

— XXXV, 3. línu: seimur = auður.

— XXXIX, 5. línu: baugur = skjöldur.

— XL, 4. línu: Sjöfn, ástardís.

— XLII, 6. línu: báls meiðir = eld-blóm = rósir eða rauður blómi (roði).

— XLIV, 8. línu: ægis brúður = alda.

— XLVI, 8. línu: Óðins bál = Óðins logi (v. XI).

— XLIX, 1. línu: hildar hamur = herklæði; 8. línu: skjöldungur = konungur.

— L, 1. línu: hrannar eldur = gull.

— LII, 3. línu: ýmukátur, sá sem hefur gaman af ýmu (orrustu).

---

# FJÓRÐA KVÆÐI.

## Skyrtan.

---

I.

Nú dvöldu hetjurnar í hilmis sölum
Um hretakalda, langa vetrartíð;
Og ljósadýrðin ljek á glæstum fölum,
Í langri röð hjekk skjalda-mergðin fríð;
Vantaði ekki valdan drykk nje gleði,
Og voldug skáld þar kváðu ljóðin mörg;
Hjálmar með Oddi hægra sæti rjeði
Við hilmis síðu, en vinstra Ingibjörg.

II.

Þá vorið kom, og vaktist foldar skrúði,
Og vötnin hlógu skær við geisla bönd,
Þá gengu hetjur, hver sem öðrum trúði,
Hjálmar og Oddur, fram með sjáfarströnd;
Þegjandi' um stund þeir stilltu fetum báðir,
Og störðu fram á geisladregna lá,
Og háa tinda', er fuma sýndust fáðir —
Frægur nam Oddur loksins segja þá:

III.

„Nú flytur ylinn fagur sólar ljómi,
Og foldarskrautið vekst um alla grund,
En þú ei gleðst af mærum munarhljómi,
Nje mildings dýrð, nje góðrar veizlu stund;
Nú skil eg vel, er söngstu sætum ómi
Um Sjafnar glóð, og ást, og fagurt sprund,
Því fyrir augu bar þjer meyja mörg,
En mærust allra lízt þjer Ingibjörg“.

IV.

„Er liðið þrek úr Hjálmari' hugum-prúða,
Er hörðum augum leit á blóðga und?
Hræðistu, vinur, Lofnar ljósan skrúða,
Er langt frá gumni bera mærust sprund?
Hví mundi eigi hilmir gefa vilja
Horskasta dóttur kappa-mæring þeim,
Sem frægðar-logar funa slungnir hylja,
Og flytja nafnið hans um allan heim?"

V.

Mælti þá Hjálmar, harmi þungum vafinn:
„Ei hræðist eg að líta fögur sprund,
En ræsir vill, að sje til hilmis hafinn
Hver sá er girnist þann að eignast mund;
Vantar mig eigi frægð nje fölvis ljóma,
En föður vilja ræð eg eigi mót;
Örlaga-nornin hylur dökkva dóma,
Hvert dýra fái' eg nokkurn tíma snót".

VI.

„Þá munum báðir við mót hilmi halda",
Nam hraustur Oddur aptur vekja máls,
„Og sýnum honum nað og fjörnis falda,
Og fellum þjóð í veðrum hjörva stáls —
Vænti eg samt, að sinni' hann mínum ráðum,
Er sæmt hann hefir mig með búin mörg,
Og láti hrund með hilmis-skrúða fáðum,
Og hildings nafni fylgi Ingibjörg".

VII.

Mælti þá aptur Hjálmar hugum-prúði:
„Eg hygg að ekki dugi þetta ráð;
Vil eg að förum vjer með skjaldar-skrúði,
Og skjóma enn að kanna Óðins láð —
Vjer skulum enn um hafið djúpa halda
Svo hverfi ástarstund og mærast fljóð,
Og Sjafnar hljómur sígi' í djúpið kalda
Saman við ölduföll og dauða-hljóð".

VIII.

„Þá munum vjer um hafið djúpa halda
Og heiðri nýjum fága skjöld og brand,
Og láta báru gnoð með löðri falda,
Og líða hjeðan yfir eyja band“,
Svo mælti Oddur, inn í hilmis sali
Ágætir gengu nú frá ströndu þeir,
Og konung brátt þeir kvöddu þá að tali,
Og kváðust mundu' að nýju veifa geir.

IX.

Nú voru búnar tvennar tíu gnoðir,
Og tírum skipað mörgum hraustum á,
Við húna voru hvítar þandar voðir,
Herbúinn flotinn brátt við ströndu lá;
En strengir glumdu hátt und hallar bogum,
Og hraustir kappar gullna tæmdu skál,
Er haldin var með hrannar rauðum logum
Hetjunum veizla', og rómu lofað stál.

X.

Miðnætur stund þá dró úr djúpi bláu,
Og dofnuð voru ljós í sölum hám,
Þá hraustir kappar ræsi sofinn sáu
Síginn á brík á ríkis-stóli gljám;
Liðuðust niður lokkar silfurgráir
Á lofðungs enni, vært á stól hann svaf,
Gömmuðu elli drauma-bogar bláir,
Sem brunasollið minntu' á æsku-haf.

XI.

Þá laut að sprundi, Sjafnar funa fáður,
Frægastur Hjálmar, yfir ræsis arm;
Dunaði strengur, dýrum söngvum háður,
Þó djúpan vekti gígnaröddin harm;
Þá kyssti hetjan munarkossi mærum
Meyjuna þar í hilmis fögrum sal,
En augu kappans tárageislum tærum
Titrandi harmur ástarinnar fal.

XII.

Fagrahvel þegar fyrsta geislann sendi
Af fjalla-brúnum yfir sjó og láð,
Þá gnoðamergðin hart úr höfnum renndi,
Og hvítt með borði freyddi ægis gráð;
Hjeldu þeir fram um haf í austanvindi,
Og hleyptu ekki dúkum nið'r af rá
Rjúkandi fyr en Ránar enti lindi
Þar rísa Íra-fjöll úr djúpum sjá.

XIII.

Sigldu þeir gnoðum síðan fram með landi,
Og sáu engan bæ nje manna þjóð,
Þá vopnast Oddur álmi' og björtum brandi,
Og býr sig til að kanna þessa slóð;
Festu þeir skipin þá með styrkum strengjum,
Og stilla ganginn ljetu akkers flein,
En Hjálmar beið með hildar-vönum drengjum,
Svo hrannar fákum gert ei yrði mein.

XIV.

Ásmundur gekk með Oddi, land að kanna,
Á auðri braut um dimman skógar-sal,
Og ekkert mál nje hljóð þeir heyrðu manna,
Nje hölda-verk þeir sá um nokkurn dal;
Var sem af lýðum landið óbyggt væri,
Þó lifði blóm, og stæði meiður hár,
Bjuggust þeir því, að þeir að fleyjum færi,
Og festi aptur dúk við langar rár.

XV.

Þá gall við strengur dimmra milli meiða,
Og málmi rennt um loptið skeyti fló,
Ásmundar hjarta í nam álmur leiða
Örina, svo að brátt í stað hann dó;
Allt eins og blóm, sem bruna-geisli lætur
Beygjast að jörð, og fölna dýrðleg lauf:
Eins kappinn hneig, er hjartans snerti rætur
Hraðfleygur teinn, og lífsins blóma klauf.

XVI.

Stundi þá Oddur, þegar fjell að foldu
Fóstbróðir kær, og æsku-vinur með,
Huldi hann líkið ljett með jörð og moldu,
Og logabræði fylltist skjótt hans geð;
Lengra hann gekk um græna skógarsali
Í grimmum hug og hefndargjörnum móð,
Unz blika sá hann branda' og glæsta fali
Í bjarkasal, þar mannafjöldi stóð.

XVII.

Einn stóð þar fremstur, fögrum klæðum búinn,
Með fagran álm, og gyltan skjöld við hlið,
Í kringum hann sjer fylkti firða grúinn,
Sem flokkur þessi væri garpsins lið;
Reiður var Oddur, skjótt hann benti boga
Og beittri ör hann á þánn kappa skaut,
Var sem úr skýjum þeytti leiptur-loga,
Er loptið knúðist fránum Gusisnaut.

XVIII.

En Hremsu brodd má halur engi standast,
Harðsnúinn teinninn fjandi lífsins er;
Hver sem að nær hún, Helju tekinn andast,
Og hart á strenginn aptur örin fer;
Flaugarnar allar ljet hann líða' af álmi,
Og leggjast þrjá að vallargrösum menn,
Blikaði sól á brandi' og skjaldarmálmi
Er burtu flýði lið um skóginn senn.

XIX.

Í reiðum huga rjeð þá Oddur ganga
Um rjóðra sal, og hugði öllum mein;
Vegu hann gekk um bjarka brautu langa
Með boga dreginn upp, og lagðan flein;
Sá hann þá loksins hús und stofnum standa,
Og stillti fetum nær í illum móð,
Hugðist hann öllum hölum mundi granda,
Hvert sem það væri karlar eða fljóð.

XX.

Knúði hann hurð, og meyjar fann þar fimm,
Sem fólust þar, og hræddust reiði hans,
Rumdi í húsi bræði garpsins grimm,
Svo gnötra mundu veggir þessa ranns;
Fegurst þar ein af fríðum hópnum var,
Og fljótum orðum mælti kappann við,
Sem áður hafði hildar kannað far,
En herja vildi nú á kvennfólkið:

XXI.

„Frægastur Oddur! láttu lausa mig,
Ljósustum mun eg vel þig sæma auði,
Og öllum mönnum framar elska þig,
Ef illur þjer úr huga rennur dauði;
Vjer drápum ekki Ásmund, kappann þann,
Sem örlaganna dísir frá þjer tóku;
Engi hjer finnst um allan þenna rann,
Sem orra-nornir bana-löngun jóku“.

XXII.

Þá mælti aptur hetja í hildar-móði:
„Hvað hölda sagði mínu nafni frá?
Hver greindi þjer um hetju, háða blóði?
Að hauðri ljet eg síga guma þrjá;
Gull hef eg nóg und gnoða flötum þiljum,
Og glæstan málm, og valið hetjulið;
En lát mig heyra loforð, fyr en skiljum,
Um lausnargjaldið, sem að kaupum við“.

XXIII.

Þá mælti aptur stúlkan, fríðust fljóða:
„Fullnóg þú tekið hefir lausnargjald,
Því föður minn og frændur mína góða
Á ferlegt sent þú hefir dauðans vald;
Samt mun eg heitið sorgum knúin enda,
Og sauma láta skyrtu handa þjer,
Með töfravald, og bauga rauða renda;
Að runnum þremur sólum kondu hjer“.

XXIV.

Mælti þá Oddur, miklum harmi þjáður,
Því mökk um huga söknuðurinn dró:
„Eins tryggan vin eg hitti engan áður
Og Ásmund — dísin hjer hans takmark bjó;
Þó hundrað kappar fjelli nið'r að foldu,
Þá finndist lítil hefndin vera mjer;
Annað er líf, og annað dvöl und moldu;
En eg mun koma samt og mæta þjer".

XXV.

Nú gengur Oddur aptur nið'r að sjónum,
En Ásmund fyrst á skógarbraut hann tók,
Og lypting í hann lagði á mararljónum,
Og látið þetta harma öllum jók;
Herinn þá vildi hefndir taka meiri,
Og Hjálmar bjóst að ganga upp á land,
Og drepa þjóð með brandi' og beittum geiri,
Og brögnum vinna dauðamein og grand.

XXVI.

„Ekki skal hefndir eptir Ásmund taka",
Þá Oddur mælti, „banadísar ráð
Er komið fram, og hátt í himni vaka
Heimsnornir þær, er sjá um mar og láð,
Enginn má buga örlaganna vilja;
Og aptur næst ei það, sem dísin tók;
Ásmundur hlaut frá skötnum hjer að skilja,
Og skapanornin með því harminn jók".

XXVII.

Þá mælti aptur Hjálmar hugum-prúði:
„Er hræðsla þjer í brjóstið komin nú?
Skelfir þig, vinur, skálm og hildar bú
Og skjaldarhvel, sem margopt geirinn knúði?
Hyggstú þá ei að hefna kappans mæra,
Sem Helja dimm úr vorum flokki tók?
Má ei sá harmur hugann framast særa,
Sem hjörva stál með beittum eggjum jók?"

XXVIII.

„Ei bregð eg optar brand nje hvössum geiri,
Þó banadísin tæki frægstan hal;
Þó dauða hans eg sjálfur illa eiri,
Þá ekki fremur samt hans hefna skal“.
Svo mælti Oddur, undrast Hjálmar náði,
Og allur kappafjöldinn hissa stóð. —
Biðu þeir svo á bláu sævar-gráði,
Unz bjarmann þriðja vakti sólar glóð.

XXIX.

Þá mælti Oddur: „upp á land að leita
Eg lofað hefi nú í þetta mund;
Mun eg þó eigi mækis eggjum beita,
Því mærast vil eg hitta Íra-sprund;
Bíðið þjer hjer, unz bauga sólin þrjá
Blossandi' um skýja-láðin hefir dregið,
Innan þess tíma ef eg kem ei, þá
Aptur til Svía-lands þjer halda megið“.

XXX.

Gekk síðan Oddur upp í bjarka sali,
Og aptur húsið þar und trjánum fann,
Þar sem að áður hitti hann að tali
Horskasta mey, sem gjaldið bjóða vann;
Nú var þar autt, því fljóðin voru farin,
Og furðu-þögn í háum ríkti sal;
Niður á silkidýnu settist harinn,
Er sólin rann, og kvaddi fjall og dal.

XXXI.

Þá minntist hann, við hinnstan sólar bjarma,
Á hetju, dána langt frá feðra grund,
Og söknuðurinn vakti sorg og harma,
Sveipandi tárum liðna æfistund;
Deyjandi geisli dagsins kvaddi bauga,
Og dreyrarúnum gyllti vota brá,
Og sorgartár, er svall í kappans auga,
Og svæfðist bruna-draumi kinnum á.

XXXII.

Þá dundi loksins dimmur skógar-geimur,
Og drósin kom; á vagni sat hún hám,
Dregnum af fákum fjörvi þrungnum tveimur,
Fríðum af gulli og silfurfestum gljám;
Ofan hún steig, og henni fylgdu fjórar
Fríðastar meyjar, gullnum klæðum í,
Báru þær dúk og öskjur undra stórar,
En ekki kappinn gaf sig neitt að því.

XXXIII.

Inn gekk þá mærin, öll af skrúða skærum
Skein hún ljómandi eins og aptansól,
Eða sem þá í geislum titrar tærum
Tignarleg alda fram við skýja stól.
Erínar skrúði engi kunni' að mæla
Afl sitt og veldi við það meyja val,
Sem kunni sjerhvern kappa' í blund að tæla.
Konunga-svanninn loks þá vakti tal:

XXXIV.

„Heill sjertu, Oddur, enn í mínum sölum!
Ágætt eg nú þjer færi harra skrúð,
Sem bera muntú blóðgum Hárs í dölum,
Og branda eggjum opt mun verða knúð;
Boðið þú hefir brögnum hraustum þínum
Að bíða þín í sólar-hringa þrjá;
Svo lengi muntú sitja í sölum mínum,
Og segja þínum afreksverkum frá“.

XXXV.

„Grætur þú enn þá hetju, fallna að foldu?
Ei fölni kinnin undir tára sæ,
Varð jeg ei sjálf að missa þann und moldu,
Sem mjer í huga ríkti kærstur æ?
Svo skulu allir hjeðan burtu halda,
Og hauðrið loksins sjer að baki sjá,
Er norniu lætur lagar-gustinn kalda
Af landi dauða svífa fjörið á“.

XXXVI.

Opnaði svanninn eskið gulli búna,
Og upp úr tók því serk, með hvítri mund,
Ljómaði hann af eldi ægis túna,
Og ítrum bjarma sló á skógar grund,
Eins og þá mær á marar blárri öldu
Miðnáttar hvílir sól um drauma stund,
Og roða slær um Ránarhvelin köldu:
Eins renndi brynjan geislum fram um lund.

XXXVII.

Smágjörva hringa sævargráa stálið
Með snild og töframögnum sterkum sló,
Og milli þeirra marar ríkti bálið
Og marga gullna teina niður dró.
Nú breiddi svanninn serkinn út á grundu,
Sjerhverri hrukku vel hún bægði frá,
Og snerti hann með mjallahvítri mundu,
Svo mærum hljómi söng við brynjan þá.

XXXVIII.

Þar voru margar gullnar ristar rúnir
Með Ránar glóð, á ljósan brynjuhring,
Skrifaðir kappar, skjöldum glæstum búnir,
Og skálmahríðir dregnar allt í kring:
Heimsþjóða stríð og hetjuverkin frægu,
Hnígandi kappar nið'r á bana slóð,
Deyjandi auga' í dauða logni hægu,
Og döpur grund, er svall með hetjublóð.

XXXIX.

Patróklus dauður hnje að dökkri foldu,
Daprasta sorg það vakti traustum hal;
Og Grikkir földu frægan kappa moldu,
Og feldu tár í dimmum harma sal.
Þar mátti líta mæran Peleifs niðja
Málnrenndum hjörvi veifa upp við ský,
Hjálmfextan elta Hektor, sem að gyðja
Heimsástar mærust studdi' í skálma gný.

XL.

Þar stóð með afli Odýsseifur slægi,
Er Ajax deildi sterkur honum mót;
Átomedón og Akkilleifur frægi
Með ógnaflugi knúðu vallar-grjót;
Og Agamemnon yndisfagra sprundið
Frá Akkilleifi reiði þrungnum tók;
Díómedeifur spjót með eiri undið
Við uppheimsguðinn sjálfan djarfur skók.

XLI.

En hinumegin dúkurinn var dreginn
Með dreyrarauðum, fáðum brynjuhring,
Með gráu stáli' og gulli hvítu sleginn,
Og gerði öllum mönnum sjónhverfing:
Þar Alexander ítur sýndist standa
Við Indusfljótsins pálmaríku strönd,
Með Grikkjaher og refilbreiða branda
Að buga sjót og vinna austurlönd.

XLII.

Og Jason frægur stóð á griskum gnoðum,
Og gullnu reifi hjelt hann á í mund;
Medea sat í sorgar dökkum voðum,
Syrgjandi liðna ástarsælu stund;
Eneas sat á silfurgljáum stóli,
Og sagði Dídó raunum sínum frá,
Og ástir kveikti ítur Trójusjóli
Yndislegastri drottningunni hjá.

XLIII.

Allt þetta var á brynjudúkinn dregið
Með dýru skrauti', og logarúnum fáð,
Með töfravaldi og traustum lögum slegið,
Tólfsettum röðum dýrra steina háð;
Undraðist hetjan brynju ljósan ljóma,
Er logabjarta dvergasmíð hann sá,
Og gullnir baugar háa vöktu hljóma.
Horskasta sprundið við hann sagði þá:

XLIV.

„Nú hef jeg veitt þjer glæsta brynju bauga;
Búinn er gripur sjö á stöðum til:
Í Sogni, þar sem straumar ljósra lauga
Líða um djúpan næturdimmu hyl,
Þar báru - dætur mjúkann serkinn slógu
Í sölum blám, með kristal - súlna fjöld,
Og yfir þaki hrannar systur hlógu
Í himingeisla' um endaleysu kvöld“.

XLV.

„En ermar vófu frægar Finna þjóðir
Með ferleg ráð, við norðurskauta straum,
Þar sem að skærar skína Ránar slóðir
Skjálfanda bliki nið'r í unnar draum'.
Og Suðureyskar snótir þráðinn spunnu
Úr samanhverfðra röðulgeisla dýrð,
Miðnætur dökkva og mánafölva unnu
Mærustu sprundin fyrirvöfin skírð“.

XLVI.

„En myrkum undir mýrtusviðar lundi
Er mittið ofið góða serknum á,
Í Vallands dal, af dýrðarsælu sprundi,
Með dökkum augum, og með svartri brá;
Erínar dalir íturgrænir hlógu,
Er unnu meyjar gulli búinn fald;
En álfabrúðir Dofrabjarga drógu
Dýrðlegan tein með magnað töfravald“.

XLVII.

„En inn' í dimmum Dulinshamra sölum
Dvergarnir fáðu mjúkrar brynju hring,
Svo öllum foldar íturbornum hölum
Aukið hún fengi glæsta sjónhverfing,
Með fyrri alda horfnum hetjuskrúða,
Sem hennar dúkum fríður geymist á,
Þeir bjuggu dýrð, með álfa kröptum knúða,
Er kappa verkin þig þeir ljetu sjá“.

XLVIII.

„Síðan þeir bljesu svölum Durins anda
Á sævargráa orra - hríðar voð,
Að ekki skyldi skálm nje fleinar granda
Skilfingi þeim, er hennar ætti stoð;
Engin í heimi slík er brynja búin
Með bjartan hring, og magnað töfravald,
Af vefjarstólum dökkra dverga knúin;
Það dýr er gjöf, en ekki lausnargjald“.

XLIX.

„Aldrei á sundi' í henni muntu mæðast;
En mein er eitt, er varast hlýtur þú:
Þú mátt ei brand nje hjörva - leiki hræðast,
Þá hjálpar ekkert dvergasmíðin sú,
Ei mun þjer frost nje funi ná að granda,
Nje fleina - stál nje hungur neitt þig sker;
Svo læt jeg serkinn sjálfum þjer til handa,
Er sauma hef jeg látið handa þjer“.

L.

Nú klæddist Oddur björtu brynju skrúði;
Sem bláköld dögg af himni' kæmi á jörð,
Og kólna ljeti grös og grænan svörð,
Er geisli sólar fyrir myrkri flúði:
Eins svalann kulda dvergasmíðin dró
Um döglings vöðva', af hetju stælta móði,
En síðan mærum sólarvarma sló
Um síður hans; þá vjek hann sjer að fljóði:

LI.

„Ágætan mjer þú gefið hefir grip,
Sem geyma mun eg æ und hlífa spöngum,
Mun eg ei óttast, þó að illum svip'
Óvinir grimmir horfi á mig löngum;
Nú vil eg reyna ramma brynju - voð,
Og ráðin hjá þjer þiggja kæn og góð,
Hvar skal nú halda um sjóinn glæstri gnoð,
Og görpum vekja hraustum dauða - blóð“.

LII.

Þá mælti aptur sikling - borinn svanni:
„Segg mun eg nefna, er þú kennir ei,
En ekki ræð eg þjer að festa fley
Ferlegum slíkum nærri töframanni;
Engum hann tjáði í orraleik að mana
Því engum líkist hann á manna jörð,
Hann bítur engin branda - eggin hörð,
Og bragnar kalla' hann Ögmund Eyþjófsbana“.

LIII.

„Nú liggur hann við ytstu Elfarsker,
Ólgandi bára vefur hann með draumi,
En ekki mun jeg allt það segja þjer
Hvað að þjer ber í slíkum hjörva glaumi;
Nú muntu halda nið'r á búna gnoð,
Því nið'r í æginn hinnstur röðull líður;
Gangi þjer vel við gunni' og hjörva roð,
Garpurinn bezti og hildarsjólinn fríður!“

LIV.

Nú kvaddi Oddur yndislega sprundið,
Og ofan gekk, þar skipaflotinn lá
Og horfði fram á dökkleitt drafnar sundið;
Og dúkum þöndum leið hann höfnum frá;
Og fleyin svifu' um sjáfarhvelið kalda
Með sverðablik og glæstan kappaher,
Þartil er gerðu rekkar hraustir halda
Þar hrönnin brotnar upp við Elfarsker.

LV.

Þar sá þeir fley á lagarfleti liggja,
Með löngum tjöldum, svörtum eins og nótt,
En enga sá þeir seggi skipin byggja,
Sem svefnastund var allt þar kyrrt og hljótt.
Þá kallar Oddur hátt af hrannar ljóni,
Að halir skyldu fella skipatjöld,
Svo undir söng á ægis víðu fróni,
Og endurkvað við bunguháan skjöld.

LVI.

Opnuðust tjöld á ægisfáki háum,
Og út gekk maður, fölur eins og nár,
Sem jötun stór, með andlits-bjarma bláum,
Bylgjaði' á herðar strítt og kolsvart hár;
Sá frjetti hátt, hver seggi svipti náðum,
Sannlega Oddur greindi nafni frá,
Og honum bauð á hrannar víðum láðum
Að heyja stríð og snarpa orraþrá.

LVII.

Halurinn aptur hildings ræðu svarar:
„Hvert ertú sá, er fór til Bjarmalands,
Og frægur er um fold og slóðir marar
Af fölvis leik við þjóðir galdra ranns?
Hvert ertú sá, er rammar risa þjóðir
Ráðsnjallur fann á huldri eyjabraut,
Og fjekk þar nafn, er festu garpar óðir,
Af fránum, stáli lögðum Gusis-naut?“

LVIII.

Þá mælti Oddur: „sá er maður sami;
Sjá vil eg hreysti þína' í hildar leik,
Hvert satt það muni', að trylltum trölls í hami
Þú tírum hverfir skjótt í líkin bleik.
Bústu nú fljótt að beita hvössum naði
Og beittum geir, og hefja grimmlegt stríð
Að krásir megi öðlast örninn glaði
Er ætíð veitir beittra flauga hríð“.

LIX.

Nú lögðu gnoðum hetjur út á hafið,
Sem hverfðist lygnt í fögrum ægis draum',
Og ekkert var með tilbúninga tafið,
En teinn og skjöldur vekja tóku glaum;
Svo börðust þeir, unz enginn uppi stóð,
Nema' Oddur, Þórður og Hjálmar hugum-prúði,
Og sjórinn allur sýndist eins og blóð,
Og sjávarþunginn marga nái knúði.

LX.

Ögmundar kappar allir voru dauðir,
Nema' átta, þeir er honum fylgdu æ;
Af mönnum voru öldufákar auðir,
Og allir flutu til og frá um sæ;
Ögmundur þá af ægis kallar ljóni
Til Örvar-Odds, með raddarháum óm',
Svo drundi hátt í djúpu marar lóni
Af digrum, fram úr barka knúðum róm':

LXI.

„Ei vil jeg, Oddur, gunni leika lengur,
Því lið er hnígið vort í djúpan sjá,
Nú gagnar ekki Gusisnautum strengur,
Því gögn ei vinnur kápu minni á;
Ætlaðan þjer jeg aldur trúi meira
En öðrum mönnum hjer um jarðar svið,
En ekki dugar veður grárra geira
Er gjörvallt fallið hefir okkar lið“.

LXII.

„Líkar mjer vel að hvíla harða branda“.
Nam hraustur Oddur aptur svara þá,
„En síðar mun eg sigla milli landa,
Og snarpa við þig heyja orraþrá“.
Oddur og Hjálmar upp á landið gengu,
En ítur Þórður gætti mararljóns;
Þeir skutu dýr, og feitar bráðir fengu,
Og fóru svo með þær til sævarfróns.

LXIII.

En þegar komu þeir að fögrum gnoðum,
Lá Þórður dauður, hetjan fræg og há,
Með sverði lagður, segla hulinn voðum;
Það sorgir nýjar vakti gumum hjá.
Ögmundur horfinn allur var frá sjónum,
Illmennið, sem með svikum dauða bjó
Hetjunni frægu' á auðum ægis ljónum,
Og eiturnaði beittum sárið hjó.

LXIV.

Í fulla viku freistuðu nú halir
Að finna hann, og könnuðu' alla strönd
Við Elfarsker, og öll þar nálæg lönd;
Ægis þá fluttu víða gustir svalir;
En síðan hjeldu þeir um hvítan sjó,
Er hvergi Ögmund náðu þeir að finna,
Og sigldu brátt með segladúka stinna
Þar Svíastillir, Hlöðver ríkur, bjó.

LXV.

Þar dvöldu þeir um stund, en veizlan valda
Vinmum ekki grand að skemmta kunni,
Þeir bjuggust aptur út á djúpið kalda,
Að efla stríð og vekja harða gunni,
Harmaði annar vina dapran dauða,
Og dána kappa, sem hann fjekk ei hefnt,
En annar fláði lífið leiða' og auða,
Sem Lofn með kvöðum dauða til fjekk stefnt.

---

## ATHUGAGREINIR.

V. XVIII, 5. línu: flaug = ör (líka partur af örinni, sjá I. kvæði, v. XXV; sbr. streng-flaugar).

— XXXIII, 5. línu: Erín er skáldlegt nafn Írlands (kemur fyrir hjá Ossían og fl.).

— XXXVI, 3. línu: eldur ægis túna = gull.

— XXXIX og XL, er Trójustríð; Patróklus var vinur Akkilleifs (Peleifs-sonar); Patróklus fjell fyrir Hektor, en Akkilleifur drap Hektor, þó ástardísin (Afrodite = Venus, XXXIX, 8. l.) aðstoðaði hann. Odýsseifur (= Úlysses) deildi við Ajax út af vopnum Akkilleifs, eptir fall hans. Akkilleifur ók á kerru í bardaganum; vagnstjóri hans hjet Átomedón; til þessa lítur v. XL, l. 3.—4. Agamemnon, konungur Grikkja, tók Bríseis, fagra konu hertekna, frá Akkilleifi; en hann reiddist svo af, að hann gekk úr bardaga, þangað til Patróklus fjell. Díómedeifur var kappi mikill í Grikkjaher, og barðist við Ares (= Mars, bardagaguð).

— XLI, 5·—8. l. lita til hinnar frægu herfarar Alexanders mikla til Indíalands.

— XLII, 1.—4. l., Jason var griskur höfðingi, hann fór til Kolkis eptir gullreifi, sem sagt er að þar hafi verið; sú för kallast Argónátaför. Jason hafði Meden konungsdóttur á burt með sjer, en fór frá henni aptur. 5.—8. l., Eneas var ágætur kappi i Trójumannaher; en þegar Trója var eyðilögð, þá flúði hann til Ítalíu, og kom á leiðinni til Kartagó; þar rjeði Dídó drottning landi, og varð hún ástfanginn i honum. Um Trójustríð hefir Hómer kveðið (Ilíasdrápu), en Virgilíus hefir sagt frá ferð Eneasar í kvæði því, er Eneasardrápa (Aeneis) heitir. Um þetta má lesa í mannkynssögu Melsteðs.

— XLVIII, 1. l.: Durinn er dvergsheiti.

# FIMMTA KVÆÐI.

## Tyrfingur.

I.

Uppsölum frá nú hjeldu' um haf
Hetjurnar frægu' á skeiðum tveimur;
Lipurt þeim ægir leiði gaf,
Ljóðaði' á stokki Ránar eymur;
Með löndum fram þeir ljetu gnoð
Líða, unz vindur bljes þeim móti,
Og þaut í stöng, en þandist voð
Í þungu veðri og sjávar-róti.

II.

Sámseyjar til þeir sigldu þá,
Svífa nam fley í hvössum vindi,
Er skutinn öldu skvetti á
Skekinn, hvítfextur Ránar lindi;
Austanvindarnir æstu sjá,
Allt eins og sífeld þruma dyndi,
Unz loksins storma fluttu flog
Fóstbræður tvo í Munarvog.

III.

Brotnað í veðri háreist hafði stöng;
Hjálmar og Oddur því af skipi gengu,
Að vita, ef þeir efniviðu fengi
Því eyjan hafði nóg af skógum föng;
Bjuggust þeir ekki hildar leik að heyja,
Því hölum öllum fjærri lá sú braut;
Hvorugum þeirra í hug þá kom að deyja,
Hafði því Oddur engan Gusisnaut.

IV.

Breyttu þeir hvergi brynjudúk nje klæðum;
Búnir þeir gengu svo á Munarland:
Oddur var búinn gljáum silki-slæðum,
Við síðu bar hann eggjarsáran brand;
En innan brynju hafði' hann gripinn góða,
Sem gullnum teinum Vallands brúður sló,
Og bannaði' Odds í blóði flein að rjóða,
En blásnum samt við Faxa hansi hló.

V.

Við síðu Odds gekk Hjálmar hugum-prúði,
Sem hvergi flýði neina orra-þrá,
Með glæstan hjálm, og rauðu skjaldar skrúði,
Þar skein af gulli dreginn haukur á,
Fjórföldum hringum brynjan slegin breiða
Bylgjaði eins og sjávar gráleitt hvel;
Hjörva sú kunni höggum vel að eyða,
Og hetjur þreyta fast við rómu jel.

VI.

Nú fagrahvelið stóð á himni háum,
Og hellti geisla-dimmu milli greina,
Sem laufum skrýddar skulfu á meiðum gráum,
Er skógar geymdu víða hvar um eyna;
Þeir gengu svo í rökkur-geisla gljáum,
Gömnuðu sjer á milli skógarleyna:
Þá hlustar Oddur allt í einu' og stóð —
Að eyrum þeirra bárust furðuhljóð.

VII.

„Hvað mundi það, er okkur ber að eyrum,
Sem ýli hundar, eða drynji naut?
Veiztú hjer nokkra von á beittum geirum,
Og vopnaleik á auðri skógarbraut?“
Svo mælti Oddur; uxu grimmleg hljóð,
Sem öskri þjór í frekum graðungs-móð';
Aptur svaraði Hjálmar honum þá,
Og hlutum slíkum þá hann innti frá:

VIII.

„Búa hjer frammi' á eynni bræður tólf,
Berserkir rammir, geirs í hörðum leik
Þeir ryðjast hart um roðin dreyra gólf,
Og reiða brand og höggna skógar - eik,
Tyrfingur skjöldu rýfur eins og reyk,
Og rekkum hverfir skjótt í líkin bleik,
Þann brand hjá þessum berserkjum má kanna,
Sem beztur gerður var í heimi manna".

IX.

„Gerður var hann af dökkum dvergum tveim,
Döglingi Svafurlama fyr til handa;
Á honum norna álög grafin standa,
Sem engin breyta má um víðan heim:
Í hvert eitt sinn skal hjörinn manni granda,
Sem hann er reiddur upp af nokkrum beim;
Níðingsverk voru lögð á ljóma þrenn,
Leyst er hið fyrsta, eptir standa tvenn".

X.

„Hvert sinn, er dregst hann skírum út úr skeiðum,
Þá skín af honum birta, eins og sól;
En ekkert kann að svala brandi breiðum
Nema blóð úr undum; er hann sjálfur ól,
Því gata hans er gerð af hetja leiðum,
Og garpa marga djúpt í jörð hann fól;
Og ekki stöðvast aptur hjörinn rjóði
Ef ekki bergir hann á dauða - blóði".

XI.

„Tólf eru halir, engum brynjum búnir,
Og bræður allir, kann eg telja þá,
Af örva - leikum aldrei reynast lúnir,
Angantýr leiðir kappa ferna þrjá;
Í berserksgangi frekum fram þeir æða,
Og ferill þeirra eru dráp og blóð;
Ei kann jeg þig um íta meir' að fræða,
Þú eygir þá nú brátt í illum móð'".

XII.

Í þessu hrutust berserkirnir fram
Úr hjarkasal, og Odd og Hjálmar litu,
Í jötunmóði' og hrímnis gráum ham',
Með Hnikars eld þeir grimmt í fali bitu;
Angantýr hæstur af þeim tírum tólf
Tyrfingi veifði', og grimmt á jaxla beit,
Í berserksgangi' hann foldar gekk um gólf,
Grenjandi allt í kringum sig hann leit.

XIII.

Þá sá þeir Odd og Hjálmar, hvar þeir stóðu,
Og horfðu á, en bráðum fram að þeim
Beljandi allir berserkirnir óðu,
Svo hergmálaði vítt um hamrageim,
Og frjettu þá, hvar farið hefðu' um heim,
Um heiti þeirra', og sögðu þeim um leið
Að eytt þeir hefði skjótum skeiðum tveim,
Er skrýddar lágu fram við sundin breið.

XIV.

„Ykkar vjer þegar leitað höfum lengi
Um land og haf“, þá mælti Angantýr,
„Og heimur yður hrausta kallar drengi,
Er hildar leikur snarpur ekki lýr;
Nú er það rjett, að freistum vjer á vengi,
Hver vaskur öðrum dauða fyrri hýr,
Hvert uppi standa á Óðins hálu fláði
Oddur frá Jaðri' og Hjálmar hugum-prúði“.

XV.

„Þá skal hjer einn mót einni hetju ganga“,
Nam Oddur svara, „skiptið flokki þá,
Og heyjum síðan hildarleikinn stranga,
Og höggin reynum traustum brynjum á“.
Vildi ei Hjálmar vitru ráði fylgja,
Hann vildi berjast flokksforingjann við,
Og ekki kunni æði sitt að dylgja,
En óvinanna stríðast kaus hann lið.

XVI.

„Aldrei hef jeg í örva dimmu jeli
Af undum blætt í mínum brynjohring,
Því vopn og geirar gráu út af hveli
Geysandi runnu ónýttum með sting“.
Angantýr vel þeim orðum hlýða kunni:
„Ágætan eg í mundu reiði brand,
Sem aldrei brázt í geiraþyt nje gunni,
Og grjótið sníður eins og silkiband“.

XVII.

„Fimm skulu tírar fara þjer á móti,
Hinn fimmti jeg, en sjöttan tel jeg hjör,
En sjö mót hinum sverða frægum brjóti
Í senn hjer skulu hraustir veifa dör;
Einn skal til leiksins upp af grundu standa,
En annar nið'r að foldu hníginn er;
Með oss skal grafa vopn og bitra branda,
Bera skal Tyrfing og í haug með mjer“.

XVIII.

Þá töldu þeir í tvenna flokka liðið;
Tyrfingi Angantýr á meðan brá;
En hjer var þeirra endað æfisviðið,
Og efstan dag þeir hlutu hjer að sjá;
Angantýr berserks æddi þá í móði,
Því augu hans kom dauða-gustur á
Frá Niflheims sölum, dimmu blandinn blóði,
Beljandi stóð hann fyrsta sinni þá.

XIX.

Þá gekk hinn fyrsti Örvar-Oddi mót,
En eikikylfu fjekk hann af sinn bana —
Til skipagerðar Oddur hafði hana
Höggvið í skógi upp af styrkri rót —
Og hvern af öðrum högg hann þannig sló,
Og hver af öðrum illum bana dó:
Litaðist þá af dökkum dreyra grund,
Drótt mátti sjá þar gína marga und.

XX.

„Nú eru bræður mínir sígnir sjö",
Svo nam veglyndur Angantýr þá mæla,
„Mundi þá dökkra dverga smíð mig tæla?
Dimm bíða hjörvi níðingsverkin tvö";
Upp reis þá einn, en Hjálmar hugum-stór
Hann sendi bráðum Óðni, síðan fór
Hver svo af öðrum, myrkrin dauði dró
Dreyrug úr víðum aldurtila sjó.

XXI.

Studdist þá Hjálmar stæltan upp við brand;
Sterkur upp reis, af grimmum sollinn móði
Angantýr þá, og hugði hetju grand,
Hjörinn að rjóða einnsinni' í blóði.
Tyrfingi með hann grimmur brugðnum beið,
En banadísin hafði sett þau ráð,
Að inn í sliðrir ekki fyndi leið
Eldbjart sverð, nema dauðablóði fáð.

XXII.

Slógu þeir saman björtum bröndum þá,
Blossaði vítt í himni feigðarljómi,
Dundi í skógarsal af háum hljómi,
Hlakkaði örn í stjörnusölum blá;
Og ekki breytti dísin sínum dómi,
En dreyrarúnir merkti hetjum á;
Og öll þau högg, er bitur sniðu sverð,
Settu hræfuglum dýran morgunverð.

XXIII.

Svo börðust hetjur, sungu dauða-söng
Sverð, hjálmar; randir allar undir dundu,
Hljómuðu' und skýjum lúðrahljóðin löng,
Er lýðfrægar hetjur sign þar að grundu.
Hver þeirra öðrum hjó þar banasár;
Hníginn var Angantýr, og dauðaskýin
Ljeku um augu hans, á ljósar brár
Lognmóða Heljar dimm var niður sígin.

XXIV.

Litverpur Hjálmar hallaðist við stein,
Hringsnjerist jörðin fyrir kappa augum,
Því dapurt honum dauða blæddi mein,
Dreyrsollin grund þá flaut í orra-laugum;
Viknaði Oddur, vaskur þar hann stóð,
Veglegri hetju hjá, er kvaddi grundu,
Og deyjandi röddu dauða mælti óð,
Drósar saknandi' á aldurtila stundu:

XXV.

„Hnígur nú máni' að myrkum sæ,
Mun jeg því hvílast hjer á grundu,
Meðan um kyrra myrkurstundu
Svífur nóttin á blíðum blæ,
Og skín um næturdaggar djúp
Dropinn í stjörnugeisla hjúp“.

XXVI.

„Sígur að augum sorti nú,
Svífur að eyrum dauðahljómur —
Skálma þytur og skjalda ómur,
Fegurst mjer gleðin sýndist sú;
Nú sje jeg eigi lengur láð,
Lík mitt mun bráðum moldu háð“.

XXVII.

„Allt eins og stjarna' um himna hring
Hlæjandi blossar sinn við dauða,
Er fer hún gegnum geiminn auða:
Allt eins er lífsins umbreyting —
Í draumi lífsins dvelur sær,
Unz dauðinn loksins æst hann fær“.

XXVIII.

„Nú brotnar lífsins bára stríð,
Borin úr heimum fyrri daga;
Hnígur nú fram á himni Saga
Með gullinn skjöld og glæstan lýð;

Bregður hún ljósri loga-mund
Á liðna tíð, við dauðastund“.

XXIX.

„Man jeg, er fyrri morgun skein,
Af marar runninn austurbylgju,
Og dreymdi blóm í daggar-ylgju
Um ljósa-hvörf í himins-rein,
En röðuls morgun-geisla glit
Gyllti fljótin með blossa lit“.

XXX.

„Hló mjer þá gleði hjarta í;
Himinsins geisla-dýrð eg þráði,
Er aldan söng á ægis láði
Og geymdi himins geisla ský;
Þá var mjer fjör í hraustri hönd,
Herjaði' eg víða' um jarðar lönd!“

XXXI.

„Frægur eg áður skjöldinn skók,
Með skálm í hönd, í broddi lýða,
Dauða ei við mig dugði' að stríða,
Hvívetna' og auð og herfang tók.
Nú hefir dauða skipað Skuld
Skjaldar að sýna ritin huld!“

XXXII.

„Kom jeg úr hildar harðri þrá
Hlaðinn með frægð og gullið rauða —
Þó byði' eg fjörlausn dimmum dauða,
Dýrt mundi verðið ekki tjá;
En leika mun í himni hrein
Herfrægðin um minn bautastein“.

XXXIII.

„Leit eg, hvar meyjan sat í sal,
Slegnir gullvendir liðast náðu
Um ljósan háls, og loptin fáðu,
Sem lýsir röðull dimman dal.

Munarheims leiptur sló þá sár
Sárara mjer en hjörinn blár“.

XXXIV.

„Dýrðlegust hennar deyfði rödd
Darraþytinn, og hljóminn skjalda;
Frá hildarleiptrum hjálma falda
Var þá mín stund að vífi kvödd;
En fyrir hörðum dauða dvín
Dýrðlegast hvað á jörð sem skín!“

XXXV.

„Drakk eg með brúði skæra skál
Skínanda víns í harra sölum;
Brennandi ljeku ljós á fölum,
Leiptruðu' á veggjum Óðins bál;
Minningar bezt það merki var
Um margar liðnar þrautirnar“.

XXXVI.

„Sat eg við mærrar meyjar hlið,
Er mararbrúnin röðul faldi,
Og mána hvel í himins tjaldi
Sveif yfir mar og sljettlendið; —
En núna, máni, dauða dýrð
Deyjanda mjer þú fölur býrð!“

XXXVII.

„Kyssti jeg hrund í háum sal;
Hvarf mjer þá gull og skálmar ljómi,
Er ástar svæfður unaðshljómi
Blundaði jeg, sem blóm í dal,
Og yfir augu drauma dró —
En dauði mjer að baki hló“.

XXXVIII.

„Nú hefir brugðið banadís
Bleikum nágreipum heljar geiri;
En svo hafa kappar farið fleiri —
Allar sjer hetjur Óðinn kýs;

Aldrei mun spyrja fríðast fljóð
Að flúið hafi' eg egg og blóð".

XXXIX.

„Nú færist dimmur dauði nær;
Dynja Einherja geirar þungir;
Kveðja mig sprund og kappar ungir —
Valhallar ljómar loginn skær;
En saman hverfur haf og grund,
Hel og fæðing, við dauða stund!"

XL.

„Drag þú mjer rauðan hring af hönd,
Hans má eg eigi skinið líta —
Fjekk mjer hann áður fljóðið hvíta,
Er síðast kvaddi' eg Svía strönd;
Og ástar minnar eilíft band
Aptur ber þú á Hlöðvis land.

XLI.

„Draga mun fölva' á drósar kinn,
Er dýran grip þú henni færir;
Hygg eg að fagra hrund þú særir,
Er hermirðu' henni dauða minn.
Fögur mjer þóttu fljóðin mörg,
En fegurst allra var Ingibjörg".

XLII.

„Kveð eg þig, Oddur, fals við flaum
Fóstbróðir dyggur, hetjan trúa!
Nú muntu haug mjer bráðum búa,
Er hverf jeg gegnum dimman draum
Valkyrja borinn vængjum á
Valhallar inn í sali há".

XLIII.

„Grunaði eigi áður mig
Að yfir hjer mig kæmi dauði;
Angantýrs hneit mjer hjörinn rauði
Að hjarta, hinnst við æfistig;

Sem munu ernir bergja blóð
Bogandi' um mína feigðarslóð".

XLIV.

„Hverf eg úr fögrum fljóða glaum',
Feigðar Valkyrjan kallar dimma;
Náblæjum veifar nornin grimma,
Endaðan kveð jeg æfistraum!
Heilsaðu svanna' á Svía strönd,
Svo kveð eg ást og jarðar lönd!"

XLV.

Svona kvað hetjan háa dauða - óð;
Af hendi Oddur fingurgullið dró;
Tíginnar hetju tár í auga stóð,
Titrandi harmageisla á það sló.
„Skaltú ei hvíla eyðiströndum á,
Ágætan þig eg flyt til Svía lands;
Af mínum höndum haug þar skaltu fá,
Hilmir frægasti' í stríðum orra - dans".

XLVI.

Eptir það Oddur stórar grafir gerði,
Og gildum seggjum varp þar hauga tólf,
Og rænti engan brand' nje björtu sverði,
En har til þeirra sjerhvern darra kólf.
Tyrfingur lá hjá tignum geiraþundi,
Sem tíðum fyrri veifði hvössum brand',
Og feiknalega fáður refill stundi
Er fólust honum sár og dreyra - land.

XLVII.

Þar standa haugar hafs á lágri strönd,
Þar hramir sífelt kveða Ránar óð;
Um miðja nátt, er blundi bregður önd,
Blossandi skín þar næturelda glóð,
Logandi þekja leiðin funa bönd,
Sem ljómi háreist tjöld við marar slóð;
Og enginn þorir þar að byggja nær,
Þetta með ótta alla lýði slær.

XLVIII.

En um miðnáttar myrka kyrðarstund,
Er máni bregður fölvum geisla' á lund:
Þá líða hetjur loga fram í tjöld
Með ljósan brand, og gulli fáðan skjöld;
Og horfa' á glæstra himinstjarna dýrð,
Sem hvelfdist fyrrum yfir þeirra líf,
Þá ljek í traustri hendi skálmin skírð
Af skatna blóði', og risti sundur hlíf.

XLIX.

Burtu gekk Oddur bræðra haugum frá,
Bar með sjer Hjálmar, unz hann skipin sá;
Tóm voru þau, af öllum mönnum auð,
Því illur berserksgangur fyr þau hrauð;
Lagði svo hetju í lypting fleyi á
Og ljet svo þessum dauðaströndum frá.
Gnauðaði Rán við gnoðar dökkleitt borð,
Gafst honum brátt að líta Svía storð.

L.

Síðan hann gekk í hilmis háa sali,
Og hjelt á brynju kappans sjer í mund,
Og gyltum skildi' og gunnarvönum fali;
Gripina lagði' hann niður fyrir hrund;
Beið hún, að Hjálmar, hlaðinn frægð og auði
Og hjálmi búinn, aptur kæmi heim,
Grunaði meyju sízt, að dapur dauði
Með dimmu veldi kæmi á tíma þeim.

LI.

Þá mælti Oddur — tár af hetju hrundi,
Og hrigðarskýin fólu salar tjöld —:
„Að heilsa beiddi Hjálmar mæru sprundi,
Við hinnsta stig um lífsins sorgarkvöld;
Hjeðan af ekki fær hann þína fundi,
Nje fáðan borið hjör, nje glæstan skjöld;
Kveðjunni ljet hann fylgja fagran hring,
Festarband sitt í lífsins umbreyting“.

LII.

Þá ljet hann bera líkið inn í salinn,
Og leggja það á bungudjúpan skjöld;
Bliknaði svanninn, sorgar þunga falinn,
Seig yfir nótt með harm og dauðatjöld;
Þá hneig úr sæti niður meyjan mæra;
Á munarvængjum önd að skýjum leið,
Er ástin ljet þar fljóðið fagurskæra
Fölna sem rós við höggvinn skógarmeið.

LIII.

Saman þá Oddur líkin bæði lagði
Og ljet þeim verpa haug með miklum veg,
Og allt var gert, sem ítur kappinn sagði;
Yfir þeim dundi harpan sorgarleg,
Svo hvíldust loksins, langt frá heimsins glaumi,
Þó lífsins ástar yrði stund ei mörg,
Und grænum foldar sverði' í dauða draumi
Dýrastur Hjálmar þar og Ingibjörg.

---

## ATHUGAGREINIR.

V. VII, 6. línu: Þjór = naut.

— VIII, o. s. frv., um þetta, og um Tyrfing, má líka lesa í Hervarar sögu; þar er líka öðruvísi sagt frá aðdragandanum til þessara atburða, en í Örvar-Odds sögu.

— IX, 2. l.: Svafurlami var konungur í Garðaríki; Arngrímur, faðir berserkjanna, tók af honum Tyrfing (sjá Hervarar sögu).

— XII, 3. l.: hrímnir er jötuns heiti, ham hans má kalla jötna athæfi (jötunmóð). Hnikar er Óðins heiti, eldur hans = Óðins bál (sverð).

— XLVII, og XLVIII lúta að því, sem segir um hauganа og haugaeldana í Hervarar sögu.

# SJÖTTA KVÆÐI.

## Heimur og trú.

I.

Nú undi Oddur ekki lengur þar,
Sem Eystrasaltið veltir dökkum bárum,
Fóstbróðir hver því farinn burtu var,
Fullur hann var af hrigð og trega sárum;
Örlaga dísin aptur ljet hann líða
Á lagardjúp, að kanna framar heim;
Fór hann með sverð um sjávarhvelið víða
Að sækja frægð með dimmum skjaldar eym'.

II.

Vegsæla djúpið velti margri öldu,
Og víða flutti þjóðum kunnan hal;
Og norðurfjöllin fólust djúpt í öldu,
Friðurinn ríkti' í bláum marar sal;
Og fram með ströndum fór nú gnoðin skjott,
Fríðir á landi stóðu skógar meiðir;
Þá ljetu halir akker falla fljótt,
Forvitnin Odd á þessa grundu leiðir.

III.

Gekk hann þá einn um græna bjarka sali,
Glóði þar blómum dimmra milli trjáa,
Og heyra mátti hýru mæla tali
Á hríslum, laufi þöktum, fugla smáa;
Undraðist mikinn Oddur jarðargróða,
Er aldrei slíkan fyr á grund hann sá,
Og meiðar gull, og rósa ljómann rjóða,
Og rökkurgeislann laufasölum frá.

IV.

Loksins hann kom í lund, þar skugga fríðan
Laufþakið skógar fyrir sólu dró,
Sá hann þar flöt með fögrum blómum víðan,
Á foldar skrúðið geislabjarma sló;
Gnæfðu þar meiðir upp í bogann bláa,
Og blærinn himna ljek um stofna fjöld;
Var sem að inní eikasalnum háa
Endalaust ríkti himinsælu kvöld.

V.

En undir skugga stofna sá hann standa
Stórgerða bygging, hvelfdu þaki með,
Prýdd var hún gulli' og röðum blárra banda,
Blossandi dýrð var allri henni ljeð;
Efst uppi' á þaki gyltur krossinn glóði,
Geislanda ljóma milli skugga brá,
Að neðan var hann dökku drifinn blóði,
Dýrðlega' að ofan geisla mátti sjá.

VI.

Úr húsi þessu heyrði Oddur líða
Hljómfagran söng, sem engi lýsa má,
Fallandi bárur fundust honum ríða
Að foldar hömrum út af æstum sjá;
Blásala svifu blíðir himinrómar,
Bornir titrandi hljómageislum af,
En undir dundu djúpir þrumu-ómar,
Sem dökkleitt æstist leipturskýja haf.

VII.

Hissa þá settist hetjan fræga niður,
Hlustaði' á söng, og gleymdi flauga hríð;
Saman við hljóminn himins-fugla kliður
Með hvellum niði vakti læti fríð;
Loksins með dimmum dvalarsælu anda
Draumblæjum veifði svefnaværðar guð,
Og hann til þeirra sælu leiddi landa,
Sem láta hverfa sjerhvern ójöfnuð.

VIII.

Blundaði hetjan blíðum svo í lundi,
Borinn af öldum fagurs dýrðarhljóms;
En loksins værum svefna brá hann blundi,
Af branda vakinn látum stála - óms;
Upp reis þá Oddur skjótt, og sverði brá,
Og eptir hljóði rann á samri stundu,
Vopnaða unz hann eygði guma þrjá
Elta hinn fjórða' um dimma skógargrundu.

IX.

Loksins þeir náðu þeim sem undan þreytti,
Af þjettum hærum var hann silfurgrár;
Einn hinna þriggja hvössum brandi beitti
Og banvænt honum veitti dreyrugt sár;
En síðan Oddur stefndi mönnum móti,
Mikilli list hann veifði hvössum brand',
Fjellu þeir allir fyrir sverða brjóti,
Og fjörvi sviptir hnigu þar á land.

X.

Nú stefndi þangað mikill fjöldi manna,
Og mikilfengan kappann starði á,
Sem ljet í einu leiðir dauðans kanna
Með ljósum brandi alla guma þrjá;
Nú Odd þar spurði einn af þeim að heiti,
En ítur kappinn strax því innti frá,
Og sagði gnoðir geyma föruneyti;
Garpurinn aptur honum svarar þá:

XI.

„Ertú hinn sami', er allir heiðra harar,
Og huldar leiðir fór til Bjarmalands,
Og frægur er um fold og slóðir marar
Af fölvis leik við þjóðir galdra ranns?
Hvert ertú sá, er rammar risa þjóðir
Ráðsnjallur fann á huldri eyja braut,
Og fjekk þar nafn, er festu garpar óðir
Af fránum, stáli lögðum Gusisnaut?“

XII.

Þá mælti Oddur: „sá er maður sami,
Siðu eg kanna vil um ókunn lönd;
Þekkja mig kappar vel í hildar hami,
Um hauðurs flöt og gjörvöll eyja bönd“.
Nú urðu ítar allir við það glaðir,
Að ágæt hetjan gista skyldi þá;
Og ótal buðust ítrum kappa staðir,
Að ynnilega hvíld hann mætti fá.

XIII.

Nú gekk með einum þar úr flokki fríðum
Frægastur Oddur heim í stóra borg,
Sem þar var sett til gagns og gnægta lýðum,
Og geymdi húsin mörg, og víðlend torg;
Spurðist nú brátt, að frægur ver þar væri,
Sem veldið ætti hátt og kappa dýrð;
Því frægðin hans og hetju-ljóminn skæri
Um heiminn allan mönnum voru skýrð.

XIV.

Einn dag kom Oddur þá við hann að máli,
Sem átti húsið, þar sem kappinn bjó:
„Fyr hef jeg bröndum kynnst og björtu stáli,
Og borizt víða yfir djúpan sjó;
Heyri jeg aldrei hjerna skildi glymja,
Nje hjörva sje eg blika upp við ský,
Nje lúðra gang eg háan heyri rymja;
Hermdu mjer frá, hvað mundi valda því“.

XV.

Þá mælti hinn: „það má eg segja þjer:
Hjá mönnum þeim, er góða siðu kenna,
Þar skjaldan hvassleg Óðins bálin brenna,
Og brögnum ekki grandar snarpur her;
Samhljómun manna, og menntun fögur lýða,
Mærastan hjer á jörðu gera frið;
Ætlað er mönnum ei í heimi' að stríða,
En elska, heiðra' og styrkja mannkynið“.

XVI.

Þá mælti Oddur: „margt mun það í heimi,
Sem mínum huga eigi kunnugt er,
Á foldar sviði' og hátt í himins geimi,
Þar hverfist kringum jörðu stjarnaher;
Hingað til eina hefi jeg um gumni
Hugsað, en vizkan flýði undan mjer;
Maður ei neinn í mínu landi kunni
Að meta það, sem frjetta má eg hjer".

XVII.

Þá mælti hinn, og brosti blítt um leið:
„Brosir að öllum himinvizkan mæra;
Svo langt er engum unnt að þreyta skeið,
Að alvizkunnar dýrð hann sjái tæra;
Lítið má jeg um þetta segja þjer,
Og því mun ráðið snjallasta, að bíða;
Á morgun báðir munum ganga vjer
Þar málið flytja vitringarnir lýða".

XVIII.

Um morguninn nam mæra hetjan ganga
Með manninum að fagurskrýddri höll;
Orðið var kvöld, og ljósa röðin langa
Ljómaði skært um salar - rjáfrin öll;
Fullt var þar inni' af fjölda borgarmanna,
Sem fýsti þar að heyra mærast tal,
Og vizku löndin vildi hulin kanna,
Þar vitringarnir lýstu myrkan dal.

XIX.

Nú gekk inn Oddur, gumnar viku frá,
Og gáfu honum rúm við innstu sæti,
Og allir störðu stilli frægan á,
Og stóðu upp á tá á öðrum fæti;
Þögn var í sal, og von í værðum lá,
Og vakna hugðist brátt úr sælum draumi;
Í salnum miðjum seggur reis upp þá,
Og sagði þessi orð í ræðu straumi:

XX.

„Himinsær! er sóla fjölda felur,
Feiknum þrungnar sjónir elur
Ljósdeyjandi lífsins fæðing í!
Endaleysu undurdimma bára,
Eignardrottning harms og gleðitára,
Hnígin fram við himinleiptra ský!
Opt vjer leggjum út í þína strauma,
Ef vjer kynnum þína dýrð að sjá; —
En þú leiðir bjarma dökkra drauma
Djúpi sokknum höllum þínum frá!“

XXI.

„Til hvurs gæddist gunna hugur auga? —
Glæsta til að líta bauga
Himna stóls um stjörnuþrunginn geim? —
Til að líta fjölda foldar sára,
Og farveg margra harmsollinna tára,
Grátið auga', og genginn sæluheim? —
Flögrar hann sem fugl um geiminn víða,
Finnur ei á dimmri þokuleið
Samtengingar takmörk rúms og tíða, —
Telur fet um endaleysu skeið“.

XXII.

„Byrjar þú við blossa glæstan skara,
Brautir þar sem hnatta fara
Fram um himins fimbuldjúpa slóð? —
Úr tímaleysu og takmarkslausu rúmi
Teygir þú í næturstundar húmi
Heimsfæðingar höfga þrungið flóð.
Endar þú við öfugstreymi sjóna
Innstu fylgsnum jarðarinnar í,
Þar sem hvílir líkið fornra fróna
Fjörvi svipt, er aldan veitti því“.

XXIII.

„Byrjar þú, sem byrjun enga lítur? —
Bylur hnatta geimsins þýtur

Þjer að eyra', er framhjá fljúga þeir. —
Hvaðan kom, og hvurt mun blómið fríða
Hjer í dimmu foldar skauti líða? —
Gat þitt auga glaðst af nokkru meir? —
Vjer í miðju eina saman sjáum
Sjerhvers þess, er himinskautið ól;
Felur sig í faðmi þoku gráum
Fæðing, dauði', og alvizkunnar sól!"

XXIV.

„Tveggja drottinn gígna stillti strengi,
Stundir svo að heima gengi
Höfgajöfnum himins fram í straum':
Heima tvenna himins upp af láði
Hann ljet spretta', og þrungna dimmu gráði
Tilverunnar ganga fram í glaum; —
Öðrum skýlir ljós og leiptra drungi,
Lagar hrönn og himinstraumur blár, —
Annan felur heipt og harma þungi,
Hlátur, gleði, sorgarský og tár".

XXV.

„Þessar liljur grams í garði standa
Gráa fram við ægisanda,
Sandur þar sem sýnist stjarna-her;
Þar sem hljómar unu á geisla gráði
Glæst í funablæ af röðul-láði,
Eilífur þar unir ljóminn sjer;
Sannleiks veldið sífelt þar sem ljómar
Seguleflt, með óbifandi ráð. —
Guðdómsorðsins lipurt ljeku dómar
Lögum þegar veröld gerðist háð.

XXVI.

„Bládögg fellur brúna nið'r af skýjum
Buðlungs himna, anda hlýjum
Borin nið'r í bikar svífur hún;
Sjerhver dropi dýrum blikar ljóma,

Dýrðar rennur æ við himinhljóma, —
Hlær í miðju hnattalögmáls rún.
    Svo eru tárin siklings himinsala,
    Svo er þrumudrottins gleðiskál; —
    Hafglymjandi himins-unnir tala
    Huga mannsins óskiljanlegt mál!“

XXVII.

„Blika lýðir ljósa þjettskipaðir,
Ljóma sóla bjartar raðir,
Dynur skýja dökkur þrumusær;
Knýjast jarðir kringum sólar ljóma
Knúðar þunga tvískelfauda dróma —
Gleðirödd í himinþrumu hlær.
    Þegir allt um þögla næturstundu,
    Þreytir geisli himinsólum frá; —
    Líttu, andi! lágri upp frá grundu
    Á lagarún, hvað hún er skær og há!“

XXVIII.

„Þar sem jarðarlífsins grösin gróa,
Og gljúpum eins í marar flóa,
Þar sem lífsins leikur mikill her:
Þar er miðjan milli þín og sóla
Margblikandi fram um himna stóla,
Þar er hliðið, sem að enginn sjer. —
    Blindur hlýtur bragna hver að líða
    Brunasollið fram á undra láð,
    Þar sem gleði hlær, og sorgir svíða:
    Sálarinnar þar sem dunar gráð.“

XXIX.

„Þar sem flærðin líður fram og læðist,
Ljósið bjarta því hún hræðist,
Himnaguð sem huga mannsins gaf;
Þar sem fátækt þungum dregst úr draumi
Dýrðlegum af ríkismannsins glaumi,
Þar sem stynur harmi þrungið haf; -

Munarskær þar meyjar renna tárin,
Meðan bliknar roðafögur kinn;
Þar sem ótal opin standa sárin,
Án þess vikni menn og himininn."

XXX.

„Þar sem ríkir munarástin mæra,
Meyjan þar sem ljómar skæra,
Ástarheimsins íturvoldug sól. —
Þar við hjartað dunar þrunan þunga,
Þjakar sorgum gamla jafnt sem unga —
Þar sem drottinn eymd og gleði ól;
Þar sem leiðir sætur svefn í blundi
Sumra önd á fagurt draumaláð,
Meðan eymdin meinar öðrum fundi
Mærrar hvíldar, sem að allt er háð."

XXXI.

„Þar sem veina villumnar í dróma
Volaðir, með eymdar-róma —
Hreifast þeir, svo bresta megi bönd;
Þar sem bál á opnum undum brenna,
Út þar myrkvir dreyrastraumar renna
Sem að veitti voldug frelsishönd; —
Þar sem stundum rangir dómar rýma
Rjetti burt með flærðar huldum álm', —
En þeir bíða ókominna tíma,
Unz þá sigrar rjettvísinnar skálm."

XXXII.

„Þar sem allt af andans frelsi ræður,
Þar sem allir eru bræður
Sem að hugsa rjett um heimsins straum;
Þar sem dauðinn harmi öllum eyðir, —
Allt um síðir hann til frelsis leiðir
Umbreytinga háan gegnum glaum; —
Þar sem minning mæringanna lifir,
Menn sem eymdum hrífa vildu frá;

En þeir sjálfir stjörnum öllum yfir
Eilíflega himni ljóma á.“

XXXIII.

Heimur, líf, og hugsun mannlegs anda
Himinböndum lokuð standa,
Sannleiksorði samtengd ljósu með;
Hulinn er sá hlekkur sjónum lýða —
Hvenær mun sú koma fylling tíða
Að vjer fáum alheimsljómann sjeð? —
Að vjer hvílum hjá þess stillis stóli
Er stikar rúm með árþúsunda fjöld, —
Og með gullnum geisla' í himinbóli
Glæstan mælir dag og tímans kvöld?

XXXIV.

Þagnaði hann, en þungir rómar liðu,
Sem þrumuródd um loptin færi há;
Á undirdjúpa öldum raddir biðu,
Sem ernir svífa þungum vængjum á;
Sem dropar glærir falla fögrum ómi
Á foldar blóm, er hlæja sólu mót:
Eins liðu hljóðin ljett á dimmum rómi,
Liðin frá djúpri samstillingar rót.

XXXV.

Þá hætti söngur, seggir risu allir
Af sætum upp, og gengu húsi frá;
En þegar tómar voru háar hallir,
Höfðingi annar tók að mæla þá;
En Oddur beið, og ítar nokkrir fáir,
Sem eptir voru' í háum ræðu sal;
Glumdu við tjöld og hallar bogar háir,
Halurinn þegar vakti þetta tal:

XXXVI.

„Allan heiminn alda gerði faðir
Engum hlut nje líkamsefni af,
Sjálfum sjer hann setti ótal staði:
Í sverði foldar, og um dökkleitt haf;

Kraptur hans í hlutum öllum ríkir:
Himintungl og maðkurinn í jörð,
Og allir hlutir í því eru líkir,
Að eilífra þeir hafa laga vörð“.

XXXVII.

„Eilíf nauðsyn öllum ræður heimi;
Upphaf gjörvalls er hún heims um slóð,
Hvaða nafn sem henni gáfu' í geimi
Gumnar, eða annara hnatta þjóð.
Ef að allt var gott, sem gerði faðir
Gjörvalls þess, sem er um heima svið,
Þá hans eru allir góðir staðir,
Eilíft því þeim ræður lögmálið“.

XXXVIII.

„Fullkominn í fyrstu byrjun sinni
Fram gekk drottinn öllum hlutum í;
Ekkert getur gjörvalls heims um inni
Gangi breytt, sem ætlaður var því.
Til hvers mundi tiggi hæða breyta
Tignarlegum veldisfetum þeim,
Fullkomin sem fyrst hann gjörði veita
Fjörvi, dauða', og allri veru' í heim?“

XXXIX.

„Verðanda nauðsyn velti hárri öldu
Verunnar, fram á takmarksbundinn hyl;
Án hennar tíð og rjáfrin rúmsins köldu
Reynast að vera ei í heimi til;
Almættið klæddist líkamlegum ljóma,
Lögum eilífra krapta bundið af;
En það að leita alvizkunnar óma,
Almættið sjálft í manninum sjer gaf“.

XL.

„Á fyrri öldum fengu ítar skoðað
Ferlegu myrkri þakinn veru heim,
Og þá fjekk andinn mönnum blindur boðað
Bjarmann óljósa', er trúin veitti þeim;

En alheimslögin smátt og smátt úr drunga
Svartnættis, liðu fram í geisla dýrð,
Og dýrðar orðin, dregin stöfum þunga,
Dróttir þá sán', í eilífðinni skírð".

XLI.

„Krossinn, sem hátt á kirkju vorri ljómar,
Á Krist oss minnir, sem að heimi dó;
Kenningar hans oss ætíð efli rómar,
Ástar logeldinn hann úr myrkri dró;
Hatur úr manna hjörtum burtu líði,
Hverfist í elsku, sem það áður var,
Hið sanna ætíð sigrar heims í stríði
Með sjálfu sjer, og drepur eymdirnar".

XLII.

Svo kenndi hann, en Oddur undrast náði
Alheimsins dýrð, og kenninganna vald,
Dvaldi hann nú um hríð á lýða láði
Ljósfögrum undir vísindanna fald;
Skírður var hann í skærri trúar öldu,
Og skatnar þeir, er honum voru með,
Því vitringarnir æ þeim trúna töldu,
Svo tign þeir fengi sannleikanna sjeð.

XLIII.

Nú fýsti Odd að kanna langar leiðir
Að löndum þeim, þar fyrsti bjarminn skein
Af sannleiksljósi', er seggja harmi eyðir,
Þar sólin reis úr þokudimmu hrein;
Jórdanar til hann bjó sig brátt að ganga,
Þar bláum öldum vizkusjólinn hár
Laugaðist, fyr en leið hann færi stranga,
Er lækna vildi' hann foldarbarna sár.

---

## ATHUGAGREINIR.

Vers; XXII, Hjer er rakin leiðin frá enu stæðsta (teleskopisk) til ens smæðsta (mikroskopisk) í heiminum, með tilliti til

stærðar. Sem dæmi upp á mismuninn nefni jeg, að Herschel hjelt, að ljósið frá hinum fjarlægustu stjörnuþokum, sem hann sá í kíkirnum, hefði verið tvær milíónir ára á leiðinni til jarðarinnar, en ljósið fer 41,000 mílna á secúndu hverri, og 148 milíónir mílna á klukkustundu. Einn teningur, þumlungur á hvern veg, af eins konar steintegund í þýzkalandi, inniheldur 40,000 milíónir af steindum smádýrum. þetta eru þær mestu mótsetningar hins stæðsta og hins smæðsta, er vjer þekkjum. — Með heimsfæðingu meinast, að heimar (þ. e. sólkerfi) sjeu allt af að myndast enn. Sköpunarverkið er eilift. — Höfga þrungin kallast myndun heimanna, af því þungalögin ríkja sem grundvallaröfl alheimsins. Öfugstreymi sjónanna er svo að skilja, að vjer skoðum ekki einungis það, sem er að verða (verðandi tíð), l. 1—6, heldur líka orðna og umliðna tíð (vjer förum aptur á bak í tímanum). L. 7—10 lúta að hinum mörgu lifandi verum, er áður voru á jörðunni, en nú eru allar dánar og orðnar að steini. Hafið (aldan) var það efni, sem lífið byrjaði fyrst í. Um þetta vona jeg að geta talað betur í bók sjer, sem jeg ætla að gefa út, ef kostur er á.

Vers: XXIV. Höfgajafn straumur himins lýtur að því, að allt í hinum veranda heimi er samhljóða og í jafnvægi, þó það sje í baráttu og stríði (sbr. Leibnitz, Monadenlehre; Harmonia praestabilita). þessir tveir heimar eru hinn andlegi og hinn líkamlegi heimur; hinn síðari er í l. 7—8, en hinn fyrri í l. 9—10. (Tilviljun = vilji; og nauðsyn).

— XXVII. Tvískelfandi drómi þungans er miðflótta afl og miðsóknar afl, því þessi tvö öfl, sem knýja hnettina í kring, láta þá eins og skjálfa í tvær stefnur, svo hin þriðja (hringurinn) kemur fram.

— XXVIII. Hjer er drepið á, að á milli nauðsynjarinnar (náttúrunnar) og tilviljunarinnar (meðvitundar, vilja, mannlegs anda) liggi hið meðvitundarlausa líf dýranna og jurtanna, og að menn ekki sjái neinn yfirgang frá einum hlut í annan, heldur einungis hlutinn, eins og þeir þegar eru komnir fram, sb. v. XXIII, l. 7—10.

— XXXII. Í l. 4—6 er drepið á, að enginn verulegur dauði sje til, heldur umbreyting, og að allt sje eilift, en undirorpið umbreytingu frá verra ástandi (ef það er í því) til betra.

Vers: XXXIII. Í l. 7—10 er drepið á að tími og rúm, sem eru grundvallarhugmyndir fyrir heiminum, en ekkert út af fyrir sig, sjeu óaðgreinanleg innbyrðis, og megi mælast hvert með öðru. Samanber: Spinoza, Cogitationes metaphysicae, II, Cap. 10, § 5.

— XXXVI. Hjer er drepið á, að guð ríki sjálfur í öllum hlutum (sje allstaðar nálægur), og að heimurinn sje gerður af engu. Þetta hefir mönnum mjög greint á um, og vil jeg ekki fara dýpra í það hjer. Sb. Martensen, den christelige Dogmatik, bls. 141—142; Strausz, den christeligeTroeslære, bls. 541—544.

— XXXVII. Hjer segir að hin eilífa nauðsyn sje upphaf og orsök heimsins; guð er þá, þegar hann kemur fram í heiminum, sama sem hin eilífa nauðsyn: „Eg segi því, eins og eg nýlega hefi sagt, að heimurinn sje nauðsynleg verkun guðlegrar náttúru, og ekki gerður af tilviljun (ɔ: sjálfræði, vilja; dico igitur, ut iam modo dixi, mundum divinae naturae necessarium effectum, eumque fortuito non esse factum, Spin. Epist. LVIII, 5.). Þess vegna er allt í sjálfu sjer gott í heiminum, af því það er undirorpið hinum eilífu lögum sannleikans; ekkert er íllt í sjálfu sjer (Spinoza tekur hið góða og hið illa frá öðru sjónarmiði, Sb. Ethica, pars IV, praef., og de intellectus emendatione, Tract. II, 12).

— XXXVIII. Guð getur ekki hugsast án heimsins, og heimurinn ekki án guðs; (sb. Strausz, den christelige Troeslære, overs. af Bröchner, bls. 556: „Hegel, Religionsphilosophi, I, S. 122. II, S. 157. 181“). Allt sem guð gerði, var gott (I Mós. b., l. 31), þ. e.: fullkomið; þess vegna er undarlegt, að hann skyldi þurfa að breyta því; hjer undir koma kraptaverka-lærdómarnir (Sb.: það virðist vera meira kraptaverk, ef guð ætíð stjórnaði heiminum með hinum einu og sömu óbreytanlegu lögum, en hann skyldi vegna heimsku mannanna breyta út af þeirri reglu, sem hann setti í náttúrunni á haganlegasta hátt og með fullu frjálsræði“ — „maius videatur esse miraculum, si Deus mundum semper uno eodemque certo atque immutabili ordine gubernaret, quam si leges, quas ipse in natura optime et mera libertate sancivit —, propter stultitiam hominum abrogaret. Spinoza, Cogit. metaph., II, Cap. X, § 5). Sb. einnig Martensen, den chr. Dogm., um englana:

„Hvað Philosophien kalder Ideer, hvað Mythologien kalder Guder, det kalder Aabenbaringen Engle“, bls. 155.

Vers: XXXIX. Um rúm og tíð, sjá v. XXXIII. — l. 7—8: heimurinn kemur til meðvitundar og sjálfs-skoðunar í manninum („Mennesket er den frie, personlige Enhed af Aand og Natur, en aandelig Sjæl, der ikke som Natursjælene er fangen i Legemlighed, men er bestemt til frit at aabenbare sig gjennem sit Legeme som et Aandens Tempel; — Aandeverdenen samler sine Straaler i Menneskets Indre, som i det altforenende Brændpunkt“; Martensen, Dogm. bls. 162 og 163).

— XL. Hjer segir um mismuninn á menntun ens forna og ens nýja tíma; áður en menn gátu skilið öfl náttúrunnar, hjeldu menn að allt væri „yfirnáttúrlegt“, sem menn ekki gátu gert sjer grein fyrir; aðgreiningin á milli menntunarinnar liggur í náttúru-vísindunum, sem eru einkenni hins seinna tíma, (Sb. Steffens, over Naturphilosophiens Forhold til den empiriske Naturvidenskab, i Forhandlinger ved de skandinaviske Naturforskeres andet Möde, 1840, pag. 25).

— XLI. L. 5—6 lúta að því, að hið illa er komið í heiminn af mönnunum, af heimsku þeirra og sjálfselsku, og það nær ekki lengra en til mannanna sjálfra. L. 7—8, þ. e. að sannleikurinn sannast með sjálfum sjer, og þarf engin kraptaverk til staðfestingar.

---

# SJÖUNDA KVÆÐI.

## Hildir.

I.

Nú byrjaði' hetjan leið að kanna langa,
Og landið hvarf, og margar sólir runnu,
Fór hann þar engir ítar leiðir kunnu,
Og áfram nam í suðurátt hann ganga;
Karpatafjöll og ís á Elbrus tindi
Ágæti kappinn glöðum huga sá,
Þar svifu ský í svölum morgunvindi,
Og sólin hellti logageislum á.

II.

Og suður fyrir Svartahafsins brún
Setti hann leið, að Evfrats lágum ströndum,
Þar enn þá minnir dauf og dáin rún
Á drótt, sem áður rjeði miklum löndum:
Þar Nínus-borg með breiðum torgum stóð,
Og Babílón með hvelfdu aldin-vengi,
Þar Labínetus leiddi drottins þjóð,
Og leika Júðum bauð á gullna strengi.

III.

Og Arabíu eyðimarkar sand
Hann yfir fór með björtu gunnar skrúði,
Þar heitur vindur líður yfir land,
Og lipur fákur margopt sandinn knúði:
Unz loksins hafsins rauða hann við strönd
Hepta nam för, þar dökkleit brotnar alda,
Kannað hann hafði heimsins frægust lönd,
Og heitan sand, og fjallatindu kalda.

IV.

Þar fann hann borg, er byggðu risa þjóðir,
Og björgin gnæfðu allt í kring um há;
Hann fýsti mjög að kanna seggja slóðir,
Og segg einn hitti skógar mörkum á;
Með honum gekk hann inn í sveita sali,
Er suðræn átti jötnaþjóðin stór;
Minni var hetja', en meiri þó í tali,
Og mikinn fjekk því heiður, þar hann fór.

V.

Dáinn var hilmir ítur um þann tíma,
Sem áður stýrði ríkjum þessa lands;
Og leita skyldi meðal allra íma,
Hver eptirmaður verða skyldi hans;
Þussinn, sem Oddur átti gisting hjá,
Á íta þeirra Hildir nefndist jörðu;
Dóttir hann átti, sú var horsk og há,
Er Hildigunni jötnar kalla gjörðu.

VI.

Einn dag kom Hildir hár við Odd að máli,
Og hægt að efni þussinn við hann fór:
„Sjeð hef jeg það, að sverða beittu stáli
Með snild þú ræður, ei þó sjertu stór;
Vitrari ertu' en verir hjer í landi,
Vil eg því biðja þig um kænleg ráð
Í einum hlut, sem öllum þykir vandi,
Og aldrei varð með hægu móti náð".

VII.

„Konungur enginn hjer nú ríki ræður,
Og rekkar þrír nú konungdóminn þrá;
Þeir eru allir saman bornir bræður,
Og bragnar engir mega sigra þá;
Hver þeirra öðrum orðið getur skæður,
Er allir keppa veldið lands að fá;
Legðu nú einum ágæt ráðin hjer,
Því einn af bræðrum þeim jeg sjálfur er".

VIII.

„Á ára - mótum milding nú skal velja,
Og mestur sjerhver fram sig býður þá;
Ferlega gripi fram þar þá skal selja,
Framgjarna hunda til þess leiks skal fá;
Og frægðarverk þar fögur upp skal telja;
En fylkir ríkis verður halur sá,
Grimmastan sem að getur sýnt þar hund,
Og gildust verk um land og marar sund.

IX.

Þá mælti hetjan: „upp hjá Elbrus tindi
Jeg ógurlega gamma búa veit,
Þar allt af snjór í svölum himins vindi
Sjálfan sig elur, hátt í fjalla reit;
Gætum vjer einum gamma þeirra náð,
Þá get eg, að það þyki mestur vandi;
Þjer kunnið ei að kanna himins láð,
En króklist allt af nið'r á foldar sandi".

X.

„Dýr veit eg eitt á Alpa fjöllum byggja,
Sem enginn vann af mennskra hölda þjóð;
En mín er gildum merkjum stoðuð hyggja,
Að máttur þinn og hreysti sje þar góð;
Vjer munum freista brátt að beita ráðum,
Ef bilar ekki afl nje hugur þinn:
Þá mætti verða', að mjög þú ykist dáðum,
Og mikill lands þú yrðir höfðinginn".

XI.

Þá mælti Hildir: „mun jeg vel þjer launa,
Ef mildings tignar hjálpar þú mjer til;
Því mjer það hefir ótal ollað rauna,
Að ei því kem eg fram, sem helzt eg vil;
Mun jeg þig gera mikinn jarl í landi,
Og minni dóttur gipta, Hildigunni,
Og sæma auði þig, sem ægisandi,
Og öllu því, sem bezt eg halda kunni".

XII.

Bjuggust þeir nú að fara langa leið,
Að ljósum, jökli þöktum Elbrus tindi,
Er margopt þoldi mikla jelja-reið,
Á meðan sumri glæddist dala rindi.
Komu þeir brátt að breiðum jökulsali,
Þar blágræn gein í ísi svellagjá;
Þar mátti líta marga gamma' og vali
Í miklum hringum svífa' um loptin blá.

XIII.

Þá sagði Hildir: „hvernig má nú seilast
Í himininn, sem er svo afarhár,
Að skýin hverki skekkjast neitt, nje deilast,
Þó skjóma reiði jötuns armur knár?“
Þá brosti Oddur við, og benti álm,
Og beittum upp hann Gusisnauti skaut:
Blikaði örin björt með jötna sálm,
Blóðugur strax á jörð einn gammur hraut.

XIV.

Þá mælti Hildir: „mikill ei er vandi
Að miða broddi þeim, er áttú þar,
Þó ekki mínu þegnar hann í landi
Þekki, nje kunni magnað galdra far;
Nú mun jeg sýna þjer, að grimmu grandi
Eg gamma lýðinn sæmt nú geti snar,
Ljáðu mjer brodd og boga, til að skjóta,
Og brátt mun einhver gammur niður hrjóta“.

XV.

Ljeði þá Oddur fagran álm og flaug
Fúlefldum risa; strax hann bogann dró;
En örin gegnum uppheimsloptið smaug,
Og enginn gammur fyrir Hremsu dó;
Mist hafði örin mátt og veldið háa,
Er mundu kappans ei hún dregin var;
Afl-laus hún fjell á jökul-landið lága,
Og lagðist þýð við hetju fæturnar.

XVI.

Þegjandi risinn rjetti Oddi bogann,
Og ráðin kænu þá fyrst undrast nam,
Er sá hann þjóta flaug, sem leiptur-logann,
Og láta val í dauðan breytast ham.
Brosti þá Oddur enn að styrkum dreng,
Því enginn fannst, er boga jafnt sem hann
Með lögðum örvum draga kynni' í keng,
Og knýja skeyti', um gjörvalls heimsins rann.

XVII.

Þá mælti Oddur: „klærnar skaltu skera
Af skepnu þeirri', er unnið höfum vjer,
Og nefið með; það hygg eg heppni vera,
Er hlotnast hefir slíkur fengur þjer;
Ei munu jötna í því skilja halir,
Að örin hafi drepið himna þjóð;
Halda þeir víst, að himins muni salir
Þjer hundkunnugir, eins og jarðar slóð“.

XVIII.

Nú gerði risinn eins og Oddur sagði,
Og allt það tók, sem vitur rjeði hann;
Og dáðist mjög að dýru kappans bragði,
Sem dauða þannig gamma lýðnum fann.
Hjeldu þeir nú af háum Elbrus tindi
Um Húnaland, og komu loksins þar,
Er mikill þekur moldu jökla lindi,
Mundíafjöll sem kalla þjóðirnar.

XIX.

Komu þeir þar að kletta hröttum böndum,
Þar breiðar voru' og langar fjallagjár;
Óskaði Hildir aptur sjer að söndum,
Þar seydda vindu flytur himin blár;
Fúlefldur jötun fór sig þá að beygja
Fyrir því veldi, sem í jörðu bjó,
Og kvaðst nú von í heimi enga eygja;
En Oddur brosti við, og lítið hló.

XX.

Af miklum huga og mælskri kappans ræðu
Í myrka gjá nú risinn niður steig,
Og stundi opt við hræðslu' og mikla mæðu,
Sem mesta þá hann fann á jarðar teig;
Og eptir honum Oddur ljettur fór,
Sem yndislegan dans hann væri' að stíga;
Fyrir þeim loksins lá þar hellir stór;
Þar ljet nú Oddur hendi niður síga.

XXI.

Síðan hann mælti: „dýrið dvelur þar
Í draumi kulda enn, í volgu híði;
Þrífðu nú vel og hart í hlustirnar —
Hygg eg að skelfa munirð' alla lýði,
Er kemur þú með kynja stóra hundinn,
Sem kremja má það allt, sem fyrir er;
Öll mun þjer standa opin jötna grundin,
Og allir konungdóminn veita þjer“.

XXII.

Þá dró sjer þykkvann Hildir upp á hendi
Hanzka, og seildist inn í djúpa gjá;
Og sterkur brátt hann bessa hlusta kenndi,
Og björninn dró hann volgu hýði frá;
Með grimmd þá dýrið hart á risann renndi,
Rammefldur það hann feldi' að jörðu þá,
Og þæfði björninn, unz hann ekkert gat,
En apturfótum á hann hræddur sat.

XXIII.

Nú fóru þeir úr fjallasölum háum,
Og foldar lönd þeir yfir gengu mörg,
Unz komu þeir að eyja böndum bláum,
Þar bjartleit stóðu Grikkja þjóða hörg;
Fengu þeir skip, og fagran segla skrúða,
Og firða, til að leiða þá um haf,
Vindurinn ljek um flötinn ægis flúða,
Og fríðan byr þeim uppheimsloptið gaf.

XXIV.

Undu þeir seglin upp við gullna húna,
Og ægisblærinn þandi hvíta voð,
Og yfir breiðar bárur ægis túna
Bruna tók hart í norðanvindi gnoð;
Þá reis upp Hildir, hrifinn jötuns móði,
Og hræðilega sig á bita skók,
Svo lá við sjálft, að fylltist skip af flóði;
Ferlega risinn þá að öskra tók.

XXV.

„Hvað er það lýðs, og illar galdra þjóðir",
Hann ólmur mælti, svo að skulfu bönd,
„Sem flytja oss um ægis víðar slóðir,
Svo öll mjer fyrir sjónum hlaupa lönd?
Því kunnið þjer að neyta ekki ára,
En illa kjósið heldur galdra list?
Hygg eg að allir vjer á beði bára
Nú brátt hjer fáum anna' og kalda vist".

XXVI.

Þá mælti Oddur: „ekki þarftu' að hræðast,
Því allt fer vel á skipi vorn nú;
Um langan veg við árar allir mæðast;
Þó öllum sterkar getir róið þú;
Vindurinn þenur voðir segla breiðar,
Og vota báru þannig klýfur gnoð;
Ef falla þær, þá fá að standa skeiðar,
Sem festar væri akkeris við stoð".

XXVII.

Nú lægðu þeir á lagar bláum vegi
Ljóshvítan dúk, og feldu hann af rá;
Linaðist gangur, löndin hlupu eigi,
Er lagðist gnoðin bylgju-halla á;
Þá ljet sjer Hildir loksins ólmur segjast,
Er listir fagrar stýrimanns hann sá,
Og enn sem fyrri aflið varð að beygjast
Ágætri fyrir kunnáttunni þá.

XXVIII.

Nú sigldu þeir, og leiðir langar fóru,
Unz loks þeir komu jötnagrundu á;
Hildir þá læsti' í húsi einu stóru
Híðbjörninn grimma Alpatindum frá;
Klærnar af dauða gamminum hann geymdi;
Og glaður síðan eptir degi beið,
Að björninn fram úr fylsninu hann teymdi,
Er ferlegt átti' að þreyta víga skeið.

XXIX.

En Oddur mælti vitur risann við,
Og vel hann orðum stillti sjer frá munni:
„Ei mun jeg sjá, er leikinn þreytið þið,
Þjóð kann að gruna, að jeg fleira kunni,
En hjer í landi leikið geta menn,
Og ljái ráð, sem bezt þjer munu hlýða;
Í dimmum skógi dægur eptir þrem
Frá döglings vali, mun eg þín því bíða“.

XXX.

Nú þegar fáir eptir dvöldust dagar,
Unz döglings skyldi byrja ferlegt val,
Þá Oddur svo með ítrum ráðum hagar,
Að einni' hann náði Hildigunni' á tal:
„mun jeg nú fara“, mælti hann „af láði,
Og mildingsvalið ekki horfa á,
Því vera kann, að ekki eptir ráði
Allt fari því, sem Hildir fjekk mjer hjá“.

XXXI.

„Þá mun hann á mig hrímnis leggja hendur,
Ef hann ei öðlast konungsvöldin mær;
En ef hann æðst í stillis vali stendur,
Þá stefnir hann mjer jarladómi nær;
Þá mun jeg aldrei hjeðan burtu halda,
Nje heimsins víðar kanna breiðan stig;
En annað skapanornin kveður kalda,
Því kveð jeg hjerna engan, nema þig“.

XXXII.

„Á burtu mun jeg brátt úr landi snúa,
Og buðlung þessa ríkis aldrei sjá;
Ei mun jeg því á beði með þjer búa,
Nje Bauga dóttur lengur hvíla hjá:
Ef mey þú átt, þá muntú þeirri halda,
Því meyjar ekki hirði jeg um grand;
En sendu mjer, þó svífi milli alda,
Son, ef þú fæðir hann á þetta land“.

XXXIII.

Nú vjek sjer Oddur út í bjarka sali,
Og eptir grimmum þurs í leyni beið;
Vildi hann frjetta' af mæru mildings vali,
Hver mestur orðið hefði leiks um skeið.
Svo beið hann þar, unz hann úr leyni leit,
Hvar löngum fetum stje á víðri grundu
Þussinn, og horfði' um hárra eika reit,
Og hátt þá sagði, svo að bjarkir dundu:

XXXIV.

„Íllt er það nú, að ei eg fæ þig hitt,
Oddur hinn vitri' og hollasti í ráðum!
Því nú er landið loksins orðið mitt,
Af lipurleika' og góðum þínum dáðum;
Sigur mjer unnu í siklings frægu vali
Snildar-ráð þín, og mundi' eg launa nú
Með Rínar málmi' úr myrkum hamra sali
Mærustum þjer, ef hjerna værir þú“.

XXXV.

„Hefir og borið Hildigunnur svein
Hraustan og vænan, þjer mun hún hann senda
Tíunda hans við æskuársins enda,
Er orðinn er hann fær að bera flein;
Skírðu hann Vigni skatnar hjer á grundu,
Og skilfings ljómi glumdi hátt við rönd,
Þá fæddist hann um foldar dimma stundu
Til frægðarverka' um gjörvöll heimsins lönd“.

XXXVI.

„Burtu jeg sný, því brátt skal ríkis gæta;
En beri þig á þessa skógargrund,
Þá vil eg, að þú finnir fjeið mæta,
Sem fela mun eg hjer í dimmum lund;
Yfir það legg eg stein, svo stormar eigi
Sterkir því feyki yfir jarðar ból,
En efst á bjargið hjör við skjöld eg hneigi,
Sem hlaðinn gulli ljómar eins og sól“.

XXXVII.

Svo mælti hann, og katla kynja víða,
Sem kraptastæltri hjelt hann á í mund,
Hann setti niður; glóði gullið fríða,
Og geisla brá um dimman skógarlund;
Ljet hann þar upp á hellu þykkva' og þunga,
Svo þegnar margir ekki gátu lypt;
En efst á henni skálm og bauga bunga
Blikuðu glæstri Freyju tára skript.

XXXVIII.

Hjörvi og skildi hraustur Oddur náði;
En hellusteinninn kyrr og fastur lá,
Og gulli þungu þrýsti hann að láði,
Og þoka enginn mátti honum frá.
Síðan hann gekk í norðurátt að nýju,
Og nálæg öll hann fór um austurlönd,
Þar sem að vindur svalar suðri hlýju,
Svifinn af dökkri rauða hafsins strönd.

XXXIX.

Kom hann á aldna', í eyði lagða staði,
Þar andinn fyr á gullnu skýi leið;
Þar fyrsta sinni daggar dropinn glaði
Úr draumi þungum hreifst af geisla reið;
Þar ástar orðin fyrst um loptið liðu,
Og ljúfur drottins friðarboðinn skein;
Þar lækur Kedrons ljósa vekur iðu,
Og ljómar Jórdan skært við gráan stein.

---

# ATHUGAGREINIR.

V. I, 5. línu: Karpatafjöll eru á Húngaralandi, en Elbrus er hæðstur tindur á Kákasusfjöllum (fyrir austan svarta haf).

— II, 5—8. l.: Nínusborg (Nínive) lá fyrir norðan Babílón; báðar þessar borgir voru fyrrmeir frægar fyrir sakir mikilleika og veldis; 6. l. lýtur að því, að í Babílón voru aldingarðar byggðir á huldu (á súlum og bogum). 7—8. l.: Labínetus (= Nabonnedus) var eginlega ekki sá, sem herleiddi gyðinga, en hann var einn þeirra konunga í Babílón, sem hjelt þeim í ánauð (hann var seinastur hinna babílónsku konunga). Gyðingar kölluðu sig sjálfir þjóð drottins. 8. l. lýtur að sálmi Davíðs: „Í Babílón við vötnin ströng“.

— V, 3. l.: ímar = jötnar (líka í II. kvæði, v. XLVI).

— VIII, 4. l.: með hundum meinast hjer vargar eða óarga dýr.

— XIII, 7. l.: jötna sálmur (eginl.: „munntal ok rödd ok orð jötna“, Sn. Edda, 68) er gulls kenning (Sb. Landavísur, ept. Þorl. Repp, í IX. ári Fjölnis).

— XVIII, 8. l.: Mundíafjöll = Alpafjöll.

— XX, 1. l.: hugur er hjer ekki haft sem þor, heldur sem löngun.

— XXIII, 3. l.: eyja bönd = höf; hörg = byggingar (hof). 7. l.: flötur ægis flúða er haft sem sjávar kenning.

— XXXI, 1. l.: hrímnir er jötunsheiti (sb. V. kvæði).

— XXXII, 4. l.: Baugi er jötunsheiti,

— XXXV, 6. l.: ljómi = sverð; rönd = skjöldur.

— XXXVII, 7. l.: baugur = skjöldur. 8. l.: skript Freyju tára er haft fyrir gull-búnað (gullstafi; tár [grátur] Freyju = gull).

---

# ÁTTUNDA KVÆÐI.

## Ögmundur Eyþjófsbani.

I.

Einn gekk nú Oddur mörg um löndin lengi,
Og lýði enga eða byggðir sá,
Og ekki reyndi hjör á hildar vengi,
Nje harðar flaugar skjaldarbungu á;
Minntist hann enn á fyrrum fallna drengi,
Fjörmikinn Þórð, og Hjálmar hugum-prúða,
Og Ásmund — nú var þeirra eptir engi,
Sem áður honum fylgdu' á vegi súða.

II.

Einn dag hann settist undir háa eik,
Umliðna tíðin leið þá hans að sjónum,
Með hetjufrægð, og hjör, og líkin bleik,
Og hildar dans á svörtum marar ljónum:
þá kom þar halur fram úr fríðum lundi,
Fölur, með rauðan kamp, og ekki hár;
Hann gekk þar að, sem hetjan sá í blundi
Horfinnar tíðar mynd og dreyrug sár.

III.

Með nafni Oddi þessi heilsar halur
Hóglega' og blítt, og mælir svo um leið:
„Nú er þjer ekki rammur reiddur falur,
Nje randir klofnar vals um dreyrugt skeið;
Rauðgrana nefna rekkar mig á grundu,
Reginkunnan, þó nú jeg þekkist ei;
Hvað er þjer nú í huga þessa stundu,
Sem horfir þú með ástarhug á mey?“

IV.

Þá mælti Oddur: „margar sorgir þjaka
Nú mínum hug, svo engi talið fær:
Ástvini marga mundi dísin taka,
Og myrkum löndum Heljar flytja nær;
Ásmundur dó, er örin hjartað knúði,
Ítrastur Þórður fjell í dauðans blund,
Og fremstur allra, Hjálmar hugum-prúði
Hvílir í dökkri fold, á Svía grund“.

V.

„Hefndi jeg þeirra', og hetjur margar dóu
Í hjörva leik, er dundu lúðrahljóð;
Valkyrjur sætt í háu lopti hlógu,
Er hetjan mæra stillti dauða-óð;
Í hug er mjer til hildar leiks að mana
Harðsnúinn þegn, er íllt mjer gerði mein,
Sem nefna þjóðir Ögmund Eyþjófsbana,
Illan og göldrum háðan tröllasvein“.

VI.

Höfuðið á sjer hristi' og skeggið síða
Halurinn þá, og brýrnar saman dró:
„Betra er allt um foldar flötinn víða,
Og fýlda eitrið, sem að náinn spjó:
En þessi ver, sem verstur er á foldu,
Vargefld sem göldrum fyrri þjóðin jók;
Og alla hristi, eins og fis, að moldu,
Nema' eina þá, er Skuld und verndir tók“.

VII.

„Æfi hans kann eg segja þjer, og sýna
Að seggur þessi ekki mennskur er:
Bjarmar í sínar raunir gerðu rýna:
Er runnu fyrri seggir undan þjer. —
Hárekur nefndist hilmir Bjarmaþjóða,
Og honum hjá þeir lögðu gýg á beð;
Við honum gat hún soninn illa' og óða,
Sem áður þú í rómu hefir sjeð“.

VIII.

„Ögmund þeir nefndu verinn vatni ausinn,
Var hann sem bik um allan skrokkinn þá,
Og niður lafði flóki fyrir hausinn,
Ferlegan svip hann hafði á að sjá,
Fúlefldum síðan Finnum þeir hann sendu,
Að fylltist hann af kynngi' og galdra-list;
Og Finnar honum fjölkynngina kenndu,
Og fjögur ár þeir ljeðu honum vist".

IX.

„Eyþjóf menn nefndu ítran hervíking,
Sem allir hræddust menn um Ránar slóðir;
Með honum æddi Ögmundur í kring,
Og undur miklar nam sjer hrannar glóðir;
Sem einkasyni' af ást og góðum hug
Eyþjófur honum gerði allt hið bezta;
En Finnar höfðu feikna aukið dug
Ferlegan hal, til illskuverksins mesta".

X.

„Því þann, sem honum unni ástum með,
Og ynnilega honum víking kenndi,
Þann myrti hann um myrka nótt á beð,
Og mæki beittum gegnum hjartað renndi.
Ögmundur síðan átta kappa valdi,
Sem ætíð honum fylgdu' í hildar leik,
Og marga huldu undir foldar faldi,
Og fölvan vöktu ná og líkin bleik".

XI.

„Síðan að honum seiddu Finna þjóðir,
Að sverðin engi, eða nokkur ör,
Nje beittir geirar, eða brandar góðir,
Nje bæsings oddur, eða stæltur dör:
Ekkert af þessu garpi skyldi granda,
Ef goða-orð ei væri lögð þar á;
Veit eg því engan verri' í stríði fjanda,
Sem vinna skal í hlóðgri hildar þrá".

XII.

„Hygg eg að engi honum banað fái,
Því hann er andi, líkams klæðum búinn;
Og varla held eg goðin heill þjer ljái
Í hildar leik, að gera Ögmund lúinn;
Ræð eg þjer frá að hitta þenna hal,
Hjörvi má víða annarstaðar beita,
Og öðlast marga und í Hildar sal,
Og aptur sárin dreyrasollin veita“.

XIII.

„Skammt hjeðan liggur skipafloti minn,
Skatnar þar eptir mjer á þiljum bíða;
Brátt munum vjer um hafið halda víða,
Og hefja upp að ránum seglin stinn;
Fóstbræður tveir mjer fylgja hraustir æ,
Frægir og vel að afreksverkum kunnir,
Garðar og Sírnir, gildir vel á sæ,
Og gráar vel þá þekkja marar unnir“.

XIV.

Nú fóru þeir, og þangað komu brátt,
Sem þangi vaxna steina báran knúði,
Og mændi laukur upp í himin hátt,
Og hlýri kyssti dökkva ægis brúði;
Þar voru fyrir gildir garpar tveir,
Garðar og Sírnir, bundu þeir með eiðum,
Fóstbræðralag að frægir gerðu þeir,
Og færi allir samt á marar leiðum.

XV.

Sigldu þeir nú um sjávardjúpið víða,
Og síðan komu þar, sem aldan leikur
Við aldinsetta Bretlands foldu fríða,
Þar fagrar jörðin elur skógar eikur:
Þar feldu seglin frægir sverða-brjótar,
Og fleyin hvíldu inn við hamra-grund;
Síðan þeir gengu' á grundu Breta sjótar,
Og glæsta hjörva reyndu þar um stund.

XVI.

Undir sig nú þeir mikið lögðu land,
Og láðum stýrðu nokkra hríð í friði;
Þá fýsti aptur út á eyja band
Örvar-Odd, til að kanna víkings siði,
Að reyna skjöld, og láta blika brand,
Og beiskum eyða saknaðarins niði,
Sem vakti æ í frænu hjarta hans
Hríðefldur verinn, niðji galdra ranns.

XVII.

Ljet hann úr höfnum mörg með marar ljón,
Og marga drengi, hildarleikum vana;
Leita hann hugðist öll um ægis frón
Ögmundar tryllta og fúla, Eyþjófsbana.
Kunni ei lengur neitt að hepta hann,
Því hefndin svaf und þungum daga straumi;
Af heipt og reiði hjartað vaknað brann,
Úr höfgum tekið minninganna draumi.

XVIII.

Affríku landa til hann þreytti þá;
Þrjár honum fylgdu hetjurnar, sem áður
Fóstbræður garpsins gerðust skipum á,
Garðar og Sírnir, og hinn þriðji, báður
Ókunnu valdi, sem ei rekkar rjeðu,
Rauðgrani, hann er stundum burtu leið,
Og vissi hluti alla, hvar sem skeðu,
En hræðast virtist blóð og sverðin breið.

XIX.

Eitt kvöld, er kyrrir lágu þeir við land,
Og ljettu hriggð með gullnum mjaðar skálum,
Þá rær þar maður yfir eyja band,
Svo ógurlega hvein í marar-álum;
Gildur og þrekinn mjög var seggur sá, —
Með snjallri rödd hann upp á gnoðir kallar,
Og frjetta nam, hver fleyjum rjeði á,
Svo feiknalega stundu rengur allar.

XX.

Þá stóð upp Oddur teitum tíri mót,
Og til sín sagði, og hann frjetta náði
Um heiti hans, og alla ættar - rót,
En allt það honum gildur verinn tjáði:
Kominn var Vignir Kyrmislandi frá,
Og kappans var hann allstaðar að leita;
Nú gerðist mikil gleði skipum á,
Og garpar mundu vínsins óspart neyta.

XXI.

Þá mælti Oddur ítran niðja við:
„Vjer ægis leiðir víða höfum kannað,
Og öllum, sem vjer mættum, gefið grið,
Og görpum engum sjávar vegu bannað;
Nú vil eg reyna, hvort þú ráðin kunnir,
Og ramman Ögmund vísa megir á;
Af honum eru harmar mínir runnir,
Og hver sú sorg, er verst eg kunni fá“.

XXII.

Svaraði Vignir aptur föður orðum:
„Ófært mjer þykir hann að berjast við,
Heyrði jeg opt um Ögmund getið forðum,
Og allt hans göldrum háða tröllalið;
Ræð eg þjer frá að reyna' á honum branda,
Rammasta verinn engi sigra má;
Verri í stríði veit eg engan fjanda,
Vil eg ei finna hann í orra þrá“.

XXIII.

Mælti þá Oddur: „mikill er þinn búkur,
Og mögnuð rödd úr hálsi þínum fer,
En hugur þinn af hræðslu verður sjúkur,
Ef hildar leikur við þig nefndur er“.
Þá mælti Vignir: „vísa mun jeg þá
Á verinn ramma; leysið stafna reimar,
Við stýri fleyi stend eg þínu á,
Og stefni þar, sem blika jaka geimar“.

XXIV.

Sveif yfir marinn suðurheimum frá
Sólvarmur blær, og fyllti hvítar voðir;
Affríku ströndum aptur ljetu frá
Ítar, með silfri renndar víkings gnoðir;
Í vikur tólf þeir hjeldu svo um haf —
Hljómaði skært við stefnið dökkleit alda,
Unz rísa sá þeir ægis brúnum af
Með ógnatindum Helluland hið kalda.

XXV.

Inn í einn fjörð af hafi brátt þá bar,
Þar báðumegin voru klettar háir;
En upp á einum hamri hlaðið var
Hervirki stórt, og settir armar gráir.
Þar stóðu menn á háum virkis vegg,
Er vel af hafi gnoða fjöldinn óð;
Þar mátti kenna kræfan galdra segg,
Kallaði' hann hátt, en allir gáfu hljóð:

XXVI.

„Hjer ertu kominn, Örvar-Oddur frægi,
Og enn þá girnist þú að fá minn fund,
Hefir þú leitað mín um allan ægi,
Og eptir mjer þú þráðir langa stund;
Muntu nú skipum leggja hjer í lægi,
Og ljósleg reisa tjöld við marar sund,
Binda vjer munum sáttir fagrar síðan,
Og saman ríkja hjer með friðinn blíðan“.

XXVII.

Dökknaði þá af dimmri heipt og reiði
Döglingsins kinn, og þannig mælti hann:
„Engan, sem þig, á Vafuðs víðu skeiði,
Vondan og illsku slunginn hal eg fann;
Fjelaga mína marga drapstú áður,
Og myrtir þann, sem hefna skal jeg nú;
Líf þitt eg heimta, þjer er bani bráður
Búinn með dör, ef undan flýrð ei þú“.

XXVIII.

Ögmundur mælti: „ekki mun jeg flýja,
Því aldrei færðu' í stríði sigrað mig;
Þorði mjer engi hugar fyr að frýja;
Þó fremst eg æskti, ei að hitta þig;
Ei mun eg fá þjer illan dauða búið;
Því annað vildi goða máttur hár;
Samt mun þjer bölið beiskt að hjarta snúið,
Og bráðum ný þjer vekjast munu sár".

XXIX.

„Nú munu mínir garpar beita bröndum,
Og báða ykkur, þig og Vigni með,
Freista að láta hvíla' á þessum löndum,
Þó leikinn allan fái' eg áður sjeð".
Virkinu síðan allir út úr gengu,
Ögmundur, fölur líkt sem skininn nár,
Og átta, þeir sem veifað fölvi fengu,
Sem færi' um loptið þrumublossi hár.

XXX.

Vignir þá kvaðst við Ögmund skyldu ega,
En Oddi hinum bauð hann fara mót;
Tjáðu þá engi orð nje ástar-hót,
Umræður eða loforð Glasis sveiga;
Oddur á móti öllum fór í senn,
Og alla brátt með kylfu' í hel þá sló;
En sár hann hafði engi fengið enn,
Því undur-hlífin krapt úr sverðum dró.

XXXI.

Á meðan glímdu garpar efldir tveir,
Og grimdarlega þeir hver annan skóku,
Moldunni upp, sem mjöllu, ruddu þeir,
Og marar grjót á lopt, sem fiður, tóku —
Ögmundur þartil loksins gerðist lúinn,
Og lagði hart á flótta út með sjó;
Þangað, sem gnæfði háreist hamra brúin,
Og henti sjer þar nið'r í eina tó.

XXXII.

Á eptir honum æddi Vignir reiður,
Og Oddur síðan reiði þrunginn hljóp,
Leiptraði upp við himin brandur breiður,
Og bragnar allir kváðu við með óp —
Vignir þá stökk af hamri niður hám,
Heitastri sollinn grimmd og dauðans bræði;
Fertugur hamar freyddi' af unnum blám,
Og fyrir neðan dundi hljóð af græði.

XXXIII.

Ögmundur brá þá fyrir Vigni fæti,
Svo fjell á grundu kappinn niður þá,
En Eyþjófsbani ill með trölla læti
Út þandi gin, og beit hann barkann á —
Kastaði honum síðan nið'r í sjóinn,
Og settist niður, mæði tekinn af;
Blóðug var öll og barin orðin tóin,
Og borinn svörður allur nið'r á haf.

XXXIV.

Hristist af bræði hjartað Odds, að sjá
Harðlega leikinn son fá þannig dauða;
Titrandi' af harmi stökk hann steinum frá,
Standandi kom hann nið'r á bjargið auða;
Ögmundur vildi ekki bíða þá,
Allmikið hafði' hann fengið sárra nauða:
Bjóst hann að stökkva brúnum hamra af,
Og bjarga fjörvi' um öldu þrungið haf.

XXXV.

En rjett sem ofan rank hann fyrir bjarg,
Með rammri hendi' í kampinn Oddur náði;
Rifnaði hold af grimmum gýgjar varg,
Garpurinn allan vangann burtu fláði;
Á því hjelt Oddur, sem hann gildur greip,
Grenjandi steyptist Ögmundur í sjóinn;
Hringaðist alda' í holann iðu sveip,
Og hvein sem þruma gjörvöll klettaþróin.

XXXVI.

Síðan þeir Englands aptur hjeldu til,
Og engum hefndum fram þeir koma náðu;
Hvíldust þeir allir harðan eptir byl,
Og hetju dána fóstbræðurnir þráðu;
Örlaga dísin eymdir þannig jók,
Og ekki linnti stinnum mótgangs hríðum;
En fögnuð hvern á fætur öðrum tók,
Og fyllti Odd með sorg og harmi stríðum.

---

## ATHUGAGREINIR.

Vers I, 8. línu: vegur súða = sjór.
— VI, 4. l.: náinn er höggormsheiti.
— VII, 6. l.: gýgur = tröllkona.
— X, 2. l.: ynnilegur (gamalt orð, ekki = innilegur) = ástúðlegur, elskulegur (sb. VI. kv., XII. v., 8. l.). Ynnilega merkir = með alúð, ástúðlega, en á ekki saman við víking.
— XIV, 3. l.: laukur = siglutrje (líka í I. kv.); 4. l.: hlýrinn ɔ: á skipinu; ægis brúðir = bylgja (sb. III. kv., XLIV v.).
— XX, 5. l.: Kyrmisland er hjer haft fyrir Risaland (kyrmir er jötuns heiti).
— XXV, 4. l.: armar, ɔ: virkis-armar (múrveggir).
— XXVII, 3. l.: Vafuður er Óðins heiti, skeið hans = Óðins láð (vígvöllur).
— XXIX, 7. l.: fölvir = sverð (er opt komið áður)..
— XXX, 4. l.: Glasis sveigar er haft sem gulls kenning; eginlega heitir kenningin bar (ɔ: lauf) Glasis.

# NÍUNDA KVÆÐI.

## Víðförull.

I.

Um nokkra stund hann stýrði þannig löndum,
En stríðir harmar ekki liðu frá;
Kom honum enn í hug að beita bröndum,
Og bera skjöld í harðri orra þrá;
Ögmundar Flóka enn hann vildi leita,
Og ekki hætta neinum víkingsher,
Sjálfur hann honum hefndir vildi veita,
Og vjek því burtu einn úr landi sjer.

II.

Stafkarla búning bar hann vondan þá,
Og batt und vanga ellihærur gráar,
Mikill að vexti var hann þá að sjá,
Og vel hann beygði herðar, ekki smáar;
Um löndin mörg hann langa vegu gekk,
Og lýðir engir þekktu frægan hara, —
En ekkert samt um Ögmund spurt hann fjekk,
Og engi kunni máli því að svara.

III.

Í geitarbelg hann geymdi hvassar flaugar,
Þar Gusisnautur hver einn fráinn lá;
En innan tötra voru brynju baugar,
Og bar þó ekkert stálhringunum á;
Álminn hann rjetti', og af tók boga strenginn,
Og eins hann bar í hönd, og göngustaf,
Svo góða ráðið gruna mátti enginn,
Að Gusisnautar rymi hart þar af.

IV.

Loksins hann kom, þar lýðir sögðu' að væri
Landvíð og voldug Garðaríkis slóð;
Hulinn um landið vjek sjer verinn mæri,
Og vildi ekki hitta gerzka þjóð;
Því hilmi sjálfan fyrst hann vildi finna,
Ef frjettir heyrði hann í ríkis sal;
Og áfram stillti fetum ferða sinna
Unz fylki við hann sjálfan vakti tal:

V.

„Heill sjertu, frægur hilmir gerzkrar þjóðar,
Horskur ríkjandi' á glæstum veldis stól!
Af þjer eg þiggja vildi vistir góðar,
Því vegur þinn er hár um foldar ból;
Víðförul nefndu verir mig, er kenndu,
Því víða fór eg allt um jarðar svið;
Lofðunga sá eg marga', er ljóma sendu
Með leipturblossa nið'r á mannkynið“.

VI.

Þá sagði hilmir: „mælska' er þjer í munni;
En magnað áður fyr eg strengdi heit,
Að taka engan hjer, sem ekkert kunni —
Hvað íþrótt namstu fyr með þinni sveit?“
Víðförull mælti: alls jeg ekkert kann,
Og engan hlut jeg nenni' að vinna heldur;
Samt jeg um heiminn líf og fæði fann,
Þó fjörleysi og leti væri' eg seldur“.

VII.

„Kunna þú munt að draga saman dýr“,
Döglingur mælti', „er aðrir garpar skjóta,
Og hart úr bognum kengi kippist ýr,
Og kræfar flaugar út um loptið þjóta —
Seztu með ítum einhvern hjer á bekk,
Óæðra megin, þar sem þrælar mætast
Við frelsingja, hjer færist hverjum rekk
Fæði og vín, svo allir megi kætast“.

VIII.

Víðförull þessu vjek sjer nú að sæti,
Þar voru fyrir áður greppar tveir,
Sem nutu vel í næði veizlu kæti, —
Voru þó ekki liprir ítar þeir;
Óttar hjet þeirra annar, halur góður,
Ingjaldur hinn var nefndur mönnum af,
Optast í veizlu glaumi hann var hljóður,
En hlutum mörgum samt hann auga gaf.

IX.

Víðförull belginn hengdi hátt á vegginn,
Og harðann bogann undir sætið ljet;
Framandi nú menn frjetta gerðu segginn
Um foldar lönd, og ýmiss örva hret;
En ekkert kvaðst hann kunna' um það að fræða,
Kumpána sína margs hann sjálfur frjetti;
Um marga hluti svo þeir rjeðu ræða, —
Rekkurinn sjaldan sögu af munni ljetti.

X.

Sjólfur og Hálfdán seggir hjetu tveir,
Við sjóla hlið þeir tæmdu gullna skál, —
Öndvegis - höldar hilmis voru þeir,
Harðir að bera rönd og orra stál;
Íþrótta menn þeir mestu voru sagðir,
Og metum í þeir voru sjóla hjá,
Á borð við þá ei bragnar voru lagðir,
Buðlungur aldrei af þeim mátti sjá.

XI.

Víðförul halir beiddu opt að breyta
Búningi þeim, sem valið hafði hann,
Og örva - belgnum annars staðar leita,
En engi bæn þar nokkuð duga vann;
Barnæsku frá hann borið sagðist hafa
Búninginn þann, og geitarskinn og staf,
Með sjer hann kvaðst það mundu láta grafa
Í myrkum hangi', er jörð hann færi af.

XII.

Nú leið á haustið, lauf að falla tóku,
Og leggjast blómin föl á visinn svörð,
Og hausta vindar blásnar bjarkir skóku,
Og hjörn og hjörtur flúðu veðrin hörð:
Þá var einn dag í víðum hallar sölum
Til veiðar harla mikilfengrar efnt,
Í myrkum skógum og í djúpum dölum,
Og dróttum mörgum til þess saman stefnt.

XIII.

Morgnninn eptir sól á sali skaut
Svífanda bliki' af himins vengi fáðu, —
Víðförull svaf í rúmi vært, og hraut;
Á veiðar fóru menn, og ei hans gáðu:
Þá Óttar kom, og bregða ljet hann blundi,
Og bað hann reyna skot í veiða dal,
Þó ei hann hjeldi', að dýrs þeir fengi fundi,
Því fæld þau væri öll úr skógar sal.

XIV.

„Ei kann eg nokkurn hlut að benda boga"
Af blundi vakinn halur svarar þá,
„Ei hef jeg freistað, stríðan streng að toga,
Nje stilla örvum fram um loptin blá; —
Eru þeir hogmenn öllum hölum meiri,
Öndvegishöldar konungs hjer í sal? —
Lofa þá ítа alla mjög jeg heyri" —
Óttar þá sagði,: „í dag það reyna skal".

XV.

Víðförull loksins reis úr rekkju þá,
Og reyrði aptur fast á boga strenginn;
Og belginn tók hann breiðum veggnum frá,
Og bjóst að fara út á veiðar engin; —
Undraðist Óttar, gamlan grepp að sjá
Gildlegar bera sig, en margan drenginn,
Sem þar í höll á unga aldri var,
Og ekki bar svo liðugt fæturnar.

XVI.

Nú komu þeir í myrkan meiða sal,
Þar margir hirtir fældir áfram þutu, —
Þá benti frægur stillir stæltan dal,
Stórmikinn fjölda dýra þeir þá hlutu;
Og öll þau dýr, sem eltu dauða-móðir
Öndvegishöldar konungs, halur skaut,
Svo ekkert dýrið fengu garpar góðir,
En gjörvallt fyrir hinum niður hraut.

XVII.

Hálfdán og Sjólfur hissa voru' og reiðir;
Harðtekinn undrun Óttar sífelt stóð —
Blikuðu fagurt bláar röðuls leiðir,
Er boga frá um loptið skeytið óð,
Víðförull brosti fríðan framan í dreng,
Því fannst ei neinn, er boga jafnt sem hann
Með lögðum örvum draga kynni' í keng,
Og knýja skeyti', um gjörvalls heimsins rann.

XVIII.

Um kvöldið, er menn komu heim af veiðum,
Þá kanna átti allra manna skeyti —
Víðförull gekk að buðlungs stóli breiðum —
Bogaði' af hinum tveimur reiði sveiti;
„Átján eg flaugar eigna skyldi mjer"
Ítrastur kappinn þá við hilmi sagði;
„Mikil er boga listin lagin þjer"
Lofðungur kvað, er skeytin fram hann lagði.

XIX.

Víðförull gekk, og fór að sofa síðan —
Sjólfur og Hálfdán komu skálir með,
Kumpána hans þeir báðu, róm með blíðan,
Að bergja á, og hressa dapurt geð —
Veðjuðu síðan silfri' og brannar glóðum,
Hvert sigrast mundi hann í bogaleik;
Ingjaldur beið, og Óttar, huga góðum,
Unz aptur kæmi morgunskíman bleik.

XX.

Þá morgunsólin mæran lýsti sal,
Og myrkra húmi ljósið rýmdi frá:
Vaknaðir snemma verir hófu tal,
Víðförla sögðu þeir frá málum þá; —
„Ei kann eg vel þá list, að benda boga“
Af blundi vakinn halur svarar þeim,
„Þó má eg reyna, stríðan streng að toga,
Og stilla örvum fram um himins geim“.

XXI.

Skotbakka í nú skatnar allir gengu,
Og skoða vildu, fremst hver þendi boga,
Unað þar mæran allir firðar fengu,
Fræknasta' að líta hali strenginn toga:
Reistur var staur, og löngu lögð á miði
Ljómandi skál, með dökku víni í,
Skatnar þar reyna skyldu á því sviði,
Hver skotið fengi bezt að marki því.

XXII.

Fyrstur þá Sjólfur flaug af álmi renndi,
Hún fór í barminn hart á gylltri skál —
Niður hann henni' af háum staurí sendi,
Svo heltist niður þrúgna dökkleitt bál —
Þá söng í málmi', er sentist nið'r á grundu
Sólgeisla björtum litum skálin fáð,
Og óminn skæra lagði langa stundu
Um lága fold, og dökkleitt ægis gráð.

XXIII.

Með sama hætti Hálfdán skaut af álmi,
Svo heltist niður aptur lögurinn,
Og fagurt söng í fríðum Rínar málmi, —
Firða þá allur kvað við hópurinn, —
Mælt var nú hátt, að mundi' ei þurfa' að reyna
Mætara skot að sýna', en þessir tveir, —
Firða þeir sögðu finnast ekki neina,
Fræknara skot er sendi, held'r en þeir.

XXIV.

Víðförull gekk að skota merktu miði,
Og málmblikandi ör úr belg hann tók;
Lagði af henni gust með geysi niði,
Svo görpum öllum þetta undrun jók —
Langaði Hremsu' að blika í lopti bláu
Um beinan veg, sem opt hún gerði fyr;
Stillti þá kempan stáli' á álminn gljáu,
Á strengnum lá þá örin hæg og kyr.

XXV.

Syngjanda hljómi smaug um loptið flaugin,
Sveipaðist niður gullskálin í hring,
En ekkert skekkti Hremsa bjarta bauginn,
Svo bragnar hugðust eygja sjónhverfing;
Niður á jörðu skálin fjell hin skæra,
En skekktist ei, og rjett á botni stóð,
Og ekkert spiltist miðinum af mæra,
En mikla hringa vakti þrúgna glóð.

XXVI.

Allir þá hissa' um nokkra stóðu stundu,
Unz stillir loksins vakti dómsins tal:
„Engi sem þú, um alla heimsins grundu,
Svo ágætlega ber í hendi dal —
Mun eg þjer allan málminn Rínar dæma,
Sem mönnum öðrum fyrri hugður var,
Og engum mun í mínu landi sæma,
Á móti þjer að veðja' um flaugarnar".

XXVII.

Aptur var skálin upp á staurinn stillt,
Strengurinn aptur gall á dregnum álmi:
Beint upp í loptið brázt þá örin gyllt,
Og björtum kvað við hátt í flaugar málmi —
Örina fal þá allra lengi sýn,
Unz aptur leið hún björt frá skýjum niður;
Broddurinn hvassi beint í gegnum vín
Í botninn rann — þá heyrðist fagur kliður.

XXVIII.

Nú gengu menn til hallar aptur heim;
Halurinn dýri fór í valið sæti —
Veðfjeið fjekk hann báðum tírum tveim —
Talað var nú um þetta' af stórri kæti —
Ókunna halinn allir undrast náðu,
Öndvegis-höldum mikla sorg það jók,
Svo að þeir hriggvir engrar gleði gáðu—
Göfugur Sjólfur drykkjarhorn þá tók.

XXIX.

Kumpánum tveim hann mæta mjöðinn færði,
Og málið vakti öfundsjúkur þá:
Víðförull hvert af mörgu stórt sig stærði —
Stöðugt í blundi æ um kvöld hann lá.
Sjólfur var þar um hríð og seggir tveir,
Og saman ræddu' um þetta nokkra stund;
Veðjuðu loksins um það allir þeir,
Að ei hann þyrfti' að reyna við þá sund.

XXX.

Morgninn eptir ítar sögðu frá
Umræðum þeim, sem gerðust kvöldið áður;
Víðförull sagði voga miklu þá,
Því væri hann af ellidögum máður;
Samt gengu menn að sjávarströndu grá,
Þar svalar unnir kyssti geislinn fáður —
Hirðin var öll og hilmir sjálfur þar,
Og horfa vildi' á mætar listirnar.

XXXI.

Sjólfur og Hálfdán sund nú lögðust á,
Síðan Víðförull þeim á eptir fór;
Í kaf þeir færðu kappann mæta þá,
Svo kólgu-dökkur fal hann lengi sjór —
En síðan tók hann Sjólf og Hálfdán báða,
Sveiflaði þeim í marardjúpið blá,
Og loks þá flutti, heljar kulda háða,
Á hrannar strönd við kletta böndin grá.

XXXII.

Bogaði þá af beggja þeirra nösum
Blóðið í straumum nið'r um alla grund;
En kappinn mæti ægis fram með flösum
Fræknlega svam, og lengi þreytti sund;
Unz loksins kvöld af ljósum himna slóðum
Lagðist á mar, þá gengu ítar heim;
Sigurinn fjekk með fögrum hrannar glóðum
Að fylkis dómi kappinn leik í þeim.

---

## ATHUGAGREINIR.

Vers. I, 5. línu: Ögmundur Eyþjófshani er líka kallaður Flóki.
— IV, 4. l.: gerzkur heitir sá sem er í eða frá Garðaríki.
— VII, 3. l.: ýr = bogi (líka í v. XXI, 8. l.).
— XVI, 3. l.: dalur = bogi (líka í v. XXVI, 1. l.).
— XIX, 5. l.: hrannar glóðir er gulls kenning.

# TÍUNDA KVÆÐI.

## Silkisif.

I.

Víðförull dvaldi' í hilmis sal um hríð;
Hjöluðu ítar margt um þennan hal; —
Svo leið nú fram með lýðum nokkur tíð,
Með ljúfri veizlu-kæti' í döglings sal;
Talaði hilmir opt um verinn valda,
Sem veldið fræga huldi allri þjóð,
En engi kunni uppi svörum halda,
Hvað ætti hann sjer nafn um jarðar slóð.

II.

Eitt kvöld, er hilmir hvílu til var genginn,
Þá Hálfdán reis af glæstum veizlustól;
Ókunna reyna enn hann hugðist drenginn,
Og Óttar kvaddi blítt með flærðar hól:
„Beztir þið eruð halir hjer í höll,
Og hafið líka hjá þeim tíri sæti,
Sem listin frægðar lætur ætíð öll,
Og lýði vinnur, stór með fremdar læti“.

III.

„Nú skulum enn þá allir veðja vjer,
Hvert vinni halur þessi' í einum leik:
Sterklega bjórinn blanda skuluð þjer,
Og buðlungs hallir fylla þykkum reyk;
Þá sjóli er til hægrar hvílu genginn,
Þá hefja drykkju' í gylfa sölum skal,
Og skatnar munu dýra reyna drenginn,
Hvert dugi hann við mjaðar skála val“.

IV.

Veðjað var nú um verinn fræga enn, —
Í værum blundi hægt og rótt hann svaf;
Gengu nú brátt til mærrar hvílu menn,
Morguninn eptir skyldi kerum af
Gullfagurt vín á gylltu hornin renna,
Og gilda drykkju vekja seggjum hjá;
Og efldust átti sú að verða senna,
Er sjótir reyna áttu' um tíma þá.

V.

Um næsta kvöld, er mildingur að mærum
Og mein-eyðanda næturblundi gekk:
Þá var á hornin miði hellt, svo tærum,
Að hreinna lög ei nokkur bragðað fjekk —
Víðförla sveinar sögðu þá frá málum:
Að senna horna búin væri þá;
Og beiddu hann að ljúka legi úr' skálum,
Því lagður væri auður mikill á.

VI.

Garpurinn hristi geitarskeggið síða,
Og greppa við hann sagði: „ei eg veit,
Hvað miklu yður mundi dísin fríða
Miðla af viti' úr himna björtum reit,
Er vogið þið svo ógna miklum auði,
Er aldrei kaupist, ef að tapið þið —
Er ykkur bráður búinn verður dauði,
Ef báðum höldum stenzt eg ekki við!“

VII.

Síðan að honum seggir gengu báðir,
Sinn með hvort horn, og drekka báðu hann —
Blikuðu skála barmar, gulli fáðir,
Og blóðrautt vínið hart nær út úr rann;
Fylgja þeir ljetu fögru víni ljóð,
Um fremdar verk og liðnar hetju tíðir,
Öllum það skötnum skemtan þótti góð,
Er skjaldar minning fagra hlutu lýðir:

VIII.

„Á Vinda landi varstu ei
Með völdum hölum fyr í stríði,
Buðlungur þegar barði lýði,
Og eyddi land, og flutti fley; —
Geysaði eldur, glumdu brandar,
Glóuðu skildir, ruku sandar,
Á meðan hilmir herfang tók
Og heljargrimmur randir skók“.

IX.

„Varstu þar ekki vals á slóð —
Víða um fold þú áttir leiðir,
Máttfarinn, aumur matar-beiðir!
Sjeð hefurð' aldrei sverð og blóð!
Varstu með nokkrum hildar hölum,
Hraustur og knár, í brandasölum? —
Áttirðu her og fögur fley,
Fátækur þýjar sonur? — nei!“

X.

Síðan til bekkjar seggir aptur fóru,
Og settust niður, eptir þessi ljóð.
Víðförull fyllti víni hornin stóru,
Og verum færði þrúgna tárin rjóð; —
Um sal hann gekk með gráum ellihærum
Og gildar herðar beygði djúpt í keng,
Og stillti vel og stöðugt orðum mærum,
Er stikil sinn hann rjetti hverjum dreng:

XI.

„Hlýðið þið á, er hef eg ljóð,
Hálfdán og Sjólfur, frægir tírar!
Ykkur eg færi skálir skírar,
Og vek úr dvala drykkjar óð. —
Hví viljið þið með hæðni tala
Við hruman gest, í veizlu sala? —
Er sjótir eigi þekkja þann,
Sem þreyta drykkju skal í rann'“.

XII.

„Fór eg til Bjarma forðum lands,
Ferlegar þjóðir við að stríða —
Ágætan tók eg auðinn lýða,
Og burtu flutti bauga ranns,
Fölva þar vöktu drengir drauga,
Og dána lýði jarðar hauga —
En heiður samt vjer hlutum þá –
Hvorngan ykkar þar jeg sá“.

XIII.

Sjólfur og Hálfdán síðan drukku löginn;
Að sæti aptur frægi kappinn gekk, —
Með vín þeir síðan fylltu bjarta bauginn,
Bikara tvo þeir færðu horskum rekk;
Skemmtun var þá í skjöldungs höll með lýðum,
Er skatnar ljetu blika þrúgna glóð;
Sjólfur og Hálfdán seggi gengu' að fríðum
Sinn með hvort horn, og kváðu þessi ljóð:

XIV.

„Börðumst vjer fyr í frægum her,
Und fylkis merki', á Grikkja landi,
Og veifa gjörðum björtum brandi —
Ekki vjer spurðum þá af þjer;
Ruðum vjer sverð á Serkja lýðum,
Sigur vjer fengum á þeim tíðum;
Fólkroði margir firðar í
Fjellu á jörð, með heljar gný“.

XV.

„Höggin var fyr með hjörvi rönd,
Er herinn áður fylkir leiddi,
Og bláan hetja brandinn reiddi
Frammi við sæla Frakka strönd;
Hvar varstu þá með horskum lýðum,
Halurinn auma, á þeim tíðum?
Heimur þitt ekki heitið kann,
Og hrund þig engi undrast vann!“

XVI.

Síðan til bekkjar seggir allir fóru,
Og settust niður, eptir þessi ljóð;
Víðförull fyllti víni hornin stóru,
Og verum færði þrúgna tárin rjóð:
Um sal hann gekk með gráum ellihærum,
Og gildar herðar beygði djúpt í keng,
Og stillti vel og stöðugt orðum mærum,
Er stikil sinn hann rjetti hverjum dreng:

XVII.

„Kom jeg á rammra risa land,
Rjúkandi' í jeljum norðurskauta,
Vísaði' eg stefnu bana brauta
Þussum, og veitti görpum grand;
Bárum vjer rönd og skarpan skjóma,
Og skíran tókum frægðar ljóma;
Hörð var þá framin hildar þrá —
Hvorugan ykkar þar jeg sá".

XVIII.

„Drekkið nú bjór úr dýrri skál,
Drengir, sem vilduð við mig reyna! -
Opt hef jeg borið bláa fleina
Um hauðurs flöt og hrannar ál;
Sjótir jeg fann á suðurlöndum,
Er snild mjer kenndu orðum vöndum;
Heyrði jeg speki hölum frá —
Hvorugan ykkar þar jeg sá".

XIX.

Sjólfur og Hálfdán síðan drukku löginn —
Að sæti aptur frægur kappinn gekk;
Með vín þeir síðan fylltu bjarta bauginn,
Bikara svo þeir færðu horskum rekk;
En kveðskap ei þeir ljetu fylgja lengur,
Því lagt þeir höfðu öll sín verkin fram; —
Undraðist þetta sjerhver döglings drengur;
Og drykkjarhornin vöktu skála-glamm.

XX.

Víðförull reis úr völdu hallar sæti,
Og víni fyllti hornin þá á ný;
Áfram hann steig, með ellihrumum fæti,
Og íta báða gæddi víni því;
Sá hann að bjórinn svífa tók á þá,
Er svíri beygjast fór á gildum hölum, —
En kappinn mæri kvæðin vakti há,
Og kvað við raust í döglings háum sölum:

XXI.

„Þið munuð hvergi þykja' um láð,
Þegnar! með nokkrum hetjum góðir, —
Sigraðir nú þjer sitjið hljóðir;
Skjótlega horna þraut er háð;
Minnst hef jeg sagt af mínum högum,
Því margt eg framdi' á liðnum dögum;
En öllu því þið inntuð frá,
Sem auðið ykkur var að tjá“.

XXII.

„Aumingjar munduð þykja þið,
Þjóðkunna ef jeg teldi hali,
Með mjer sem báru bjarta fali,
Og hjuggu þjóð um hildar svið:
Ef nefndi' eg Hjálmar hugum-stóra,
Og hamförum trylda, þrenna fjóra
Berserki, sem við unnum á —
Ykkar hvorugan þar jeg sá“.

XXIII.

„Haldnir þið væruð hæfir ei
Hilmis að auka mærast veldi,
Ef að jeg fleiri tíra teldi,
Með mjer sem áður fluttu fley:
Ásmund og Þórð, og verinn valda
Vigni, sem huldi báran kalda;
Við Eyþjófsbana' eg átti þá,
Ykkar hvorugan þar jeg sá“.

XXIV.

Sofandi lágu seggir báðir þar —
Sveif á þá horna - flóðið dökkva' og mæra;
En kappinn drakk nú lengi löginn tæra, —
Með lýðum hilmis ágæt skemmtan var.
Sváfu menn nú, það eptir entist nætur;
Unz árla reis af fjalla brúnum sól,
Og morgungeislinn gyllti Ránar dætur,
Og gulli klæddi himinskýja stól.

XXV.

Þá settist hilmir háan upp á stól, —
Hetjan var gengin út að taka laugar,
Þar sem að hrönnin hló um marar ból,
Og himingeislum skrýddust Ránar baugar;
Lagt hafði' hann tötra lága nið'r á jörð,
Ljómandi stóð hann búinn hildar skrúði,
Á brynju, sem var hjörtum hringum vörð,
Með brand við hlið, sem marga hjálma knúði.

XXVI.

Óttar þá bar og Ingjald nið'r að sjó,
Áður en kappinn líkam tötrum huldi,
Og geislinn hver á fætur öðrum fló
Af fetlum gulls, er áður hetjan duldi; —
En kappinn snjerist við, og sagði þá:
„Að sölum munum vjer til hilmis ganga,
Því nú ei lengur drótt eg dyljast má,
Þó daga fyr mjer tækist það um langa“.

XXVII.

Síðan þeir gengu' að sölum fylkis heim,
Á segginn fræga starði allur lýður;
Staðnæmdist hann hjá stóli loksins þeim,
Er stillir ríkis ætíð sat á fríður;
Ljósgulir fjellu lokkar nið'r um beim,
Liðinn var burtu ellikampur síður, —
En hetjan kvaddi þengil, þar hann stóð,
Og þegnar allir gáfu' í salnum hljóð:

XXVIII.

„Heill sjertu, frægur hilmir gerzkrar þjóðar,
Horskur ríkjandi' á glæstum veldis-stól'!
Þjer mun eg vistir þakka loksins góðar,
Þengill, sem allir kenna' um jarðar-ból;
Fært er ei lengur hjer með drótt að dyljast,
Því drengir sáu nú við laugar mig;
Því skal ei lengur nafn mitt heldur hyljast,
Hjetu mig þjóðir Odd á foldar stig“.

XXIX.

Hetjunnar ræðu hilmir aptur svarar:
„Hvert ertu sá, er fór til Bjarmalands,
Og frægur er um fold og slóðir marar
Af fölvis leik við þjóðir galdra-ranns?
Hvert ertu sá, er rammar risa þjóðir
Ráðsnjallur fann á huldri eyja braut,
Og fjekk þar nafn, er festu garpar óðir
Af fránum, stáli lögðum Gusisnaut?“

XXX.

Þá mælti Oddur: „sá er maður sami;
Að segg eg leita þeim um víða jörð,
Sem tjón mjer vann í tryldum kynngis hami,
Og taldi sár mjer ótal, vond og hörð;
Ögmund eg fúlann Eyþjófsbana meina,
Sem áður fann eg Hellulandi á —
En ekki nokkur allra þinna sveina
Kann illum honum mjer að segja frá“.

XXXI.

„Mig furðar ei“, þá fylkir aptur svarar,
„Þó fengir sigur þú í hverjum leik;
Fyrir þjer allir foldar lúta harar,
Fyrir þjer hver ein jarðar þjóð er smeik;
Seztu hjá mjer í sætið hilmis gljáa,
Siklingum flestum æðri ljómar þú;
Lengi vjer spurðum um þitt heitið háa,
Og heiður þann, er gaf þjer jarðar bú“.

XXXII.

Þá settist Oddur upp í sætið hara,
Og sjótir allar horfðu kappann á;
Um alla borg nú mundi fregnin fara,
Að frægur sjóli væri þjóðum hjá. —
Nú liðu fram með lýðum nokkrar stundir,
Og lengi ekkert skeði í ríkis geim, —
En eitt sinn, er þeim saman fjellust fundir,
Fylkir við kappann mælti orðum þeim:

XXXIII.

„Nú hef eg ráðið ríki' i fimmtíu' ár,
Og roðið hjörva opt í dökku blóði,
Lengi mjer hefir lukkunnar úr sjóði
Ljómandi auðnast frægð og vegur hár;
En ellin nú að æfidögum sígur,
Og innan lítils tíma kemur stund,
Að daga sól í dauða marinn hnígur,
Og djúpan leggst eg þá í grafar blund".

XXXIV.

„Því vil eg ríkis-veldið þjer nú bjóða,
Þengillinn frægi, er mig sóktir heim!
Kórónu' og sprotann Garðaríkis góða,
Og gerzkra landa mikinn veldis seim;
Fylgir því Sembla' og Svía-þjóð hin kalda,
Er sjótir byggja fram við ægis rif, —
Dýrð fylgir því og döglingsnafnið valda,
Og dóttir mín, hin fagra Silkisif".

XXXV.

Opnuðust dyr á hallar-veggjum háum,
Er hilmir ríkur lauk við mærast tal,
Og inn gekk flokkur, fáður skrúða gljáum,
Sem funa blossum lýsti allan sal;
Allt eins og fylking stór af bylgjum bláum
Brunandi fer um víðan ægis dal:
Eins gengu fríðar meyjar, tvennar tólf,
Neð tignum fetum inn á hallar gólf.

XXXVI.

Þær voru allar skrýddar blæjum blám,
Bylgjandi eins og þoku dúkar tinda,
Sem morgunstund á hálsum elur hám,
Og hverfast til og frá í straumum vinda;
Eða sem öldur, sem í geislum gljám
Gagnsæan vekja dans á marar linda.
Gullbönd um enni glóðu fagurskær,
Sem glampar stjarna' um himindjúpin tær.

XXXVII.

Fremst gekk þar allra fríðust Silkisif,
Fáðu skínandi' af gulli' og ljóma veldi, —
Liðaðist hárið eins og loga bif,
Og líktist slegnum Ránar dætra eldi;
Sem ótal mærar morgunstjörnur skein
Á meyjar enni demantsteina fjöld;
Og kinnin ljek í rósa roða hrein
Sem röðull litar ský um sumarkvöld.

XXXVIII.

Ei hafði Oddur svanna nokkurn sjeð,
Er slíkan átti fagran yndisljóma,
Og sem að nokkur fegurð lík var ljeð; —
Að lofðungs sæti' hún gekk, og vakti róma;
Heilsaði svanninn hilmi ríkum þar,
Hástólinn í hún settist niður fríðan.
En Oddur loksins aptur vakti svar,
Og innti þetta hilmi frægum síðan:

XXXIX.

„Sje það þinn vilji' og voldugt hugar ráð,
Vitrastur hilmir Garðaríkis þjóða,
Að mjer þú viljir gefa lýð og láð,
Og ljá mjer dýrast ríki hrannar glóða,
Þá mun jeg þessu undan skorast ei,
Er ágætast þú mjer í heimi býður;
Aldregi fyrri sá eg mærri mey,
Svo mun á jörðu kveða allur lýður“.

XL.

Nú liðu dagar; eptir stutta stund
Stórkostleg átti brúðkaups veizla' að haldast;
Flaug nú sem elding frjett um alla grund,
Að fylkis sölum dreif þá liðið valdast;
Úr öllum áttum streymdi múgur manns,
Mundi ei neinn svo stórt á foldu hóf,
Sem búa skyldi þá und rjáfri ranns;
Rekkurinn margur til þess dúkinn óf.

XLI.

Í átján daga dýrust veizlan stóð;
Döglingur gerðist Oddur nú á láði, —
Glöð var og ánægð Garðaríkis þjóð
Gjörvöll yfir því konunganna ráði;
Sprotanum stillti stillir vel í hönd,
Og styrkum ráðum efldi konungs veldi,
Auðgaði láð og lýð að hrannar eldi,
Og liprum ráðum dæmdi málin vönd.

XLII.

Þangað til eptir liðna æfi-stund,
Ítrastur hilmir, faðir svannans mæra,
Lagðist á beð, í djúpan dauða blund,
Sem dróttum öllum hvíld og ró má færa.
Nú átti Oddur ríki' og drottning dýra,
Sem dýrust talin var um alla grund;
Og svo hann mundi nokkra stundu stýra
Stórmiklum löndum kraptastæltri mund.

---

## ATHUGAGREINIR.

Vers: I, 4. l.: döglingur = konungur (kemur opt fyrir).
— III, 6. l.: gylfi = konungur.
— V, 7. l.: senna = orrusta (kappleikur).
— IX, 3. l.: matar-beiðir er förumaður (betlari). — 6. l.: branda salir er haft sem herkenning. — 8. l.: þýjar = ambáttar.

Vers: X, 4. l.: þrúgna tár (bál, glóð) = vín. — 8. l.: stikill = neðri hluti hornsins (fyrir hornið allt).

— XIII, 7. l.: fólkroð = bardagi, stríð (fólk er í sverðaheitum).

— XVII, 4. l.: hrannar áll = sjór.

— XX, 8. l.: að kveða við raust er sama sem að kveða hátt; sb. sögu Egils Skallagrímssonar (þegar hann flutti Eiríki konungi Höfuðlausn).

— XXIV, 2. l.: horna flóð = vín.

— XXVI, 4. l.: fetill = belti, líndi.

— XXX, 3. l.: kynngi = galdrar, trölldómur (líka í VIII. kv. VIII. v. 6. l.).

— XXXI, 3. l.: hari (líka harri, V. kv. XXXV. v. 2. l.) = konungur (líka í næsta versi á eptir, 1. l.).

— XXXVII, 3. l.: loga bif er haft um titring eldblossa. Rjettari mynd væri kannske bifun. — 4. l.: sleginn eldur Ránar dætra = barið gull (kemur opt fyrir í sögum, þegar talað er um meyja hár).

# ELLEFTA KVÆÐI.

## Kvillanus.

---

I.

Tíðindi þau á tíma urðu þeim
Að tiggi dó á Blökkumanna landi,
Og maður nokkur seggi sókti heim,
Með sverð og her, og þungu fölvis grandi;
Sá brauzt til ríkis beittum hjörvi með,
Og buðlungs nafn og landa ráðin tók;
En engi maður andlit hans fjekk sjeð,
Því öllum gríma mikil skugga jók.

II.

Spurðist nú þetta öll um lýða lönd;
Og loksins kom sú trú hjá mörgum þjóðum,
Að sá, er þar í ríki bæri rönd
Runninn með töfrum væri' af himna slóðum;
Þá strengdi hraustur Örvar-Oddur heit,
Að ylfing þann hann mikinn skyldi finna,
Og hjörvi efldur halda þess á leit,
Hvað heiti þessa jöfurs skyldi inna.

III.

Dreginn var saman darra-vanur her,
Og dróttum mörgum stefnt til hildar leika,
Fengin var skálm og skjöldur hverjum ver,
Að skatnar veittu Helju nái bleika;
Fimm þúsund manna gengu þar á gnoðir,
Og gylfi sjálfur rjeði hernum þeim,
Og hvítar fyrir vindi þöndust voðir,
Og veltu báru fast um Ránar geim.

IV.

Komu þeir brátt að Blálands vörmum ströndum;
Og boð var gert til ræsis sala heim,
Að fjarlægum úr fimbuljökla löndum
Fylkir þar kominn væri' af álfum þeim —
Bardagi var nú boðinn Hárs með lögum,
Ef buðli ekki missa vildi land; —
Aptur kom svar, að ekki væri högum
Ylfinga skipað eins og ægisand.

V.

Reiddist þá Oddur ræsis út af boði,
Ráðkænska hans því háð þar meinlegt fann;
Við skálma þyt og skæðu unda-roði
Skatna nú alla sína varar hann;
Beið hann nú þess með björtum hildar málmi
Að buðli kæmi' og vekti snarpa hríð;
Að þyti hjör, og flygi ör af álmi
Með ógna hvin, um dreyrugt þjóða stríð.

VI.

Nú leiddi hilmir, lýðum engum kunnur,
Liðsfjölda sinn á móti kappans her;
Byrja þá skyldi bráðan dauða gunnur,
Og brandar skyldu' í dreyra svala sjer;
Fylkt var þá liði á foldar víðri grundu,
Og flokkum skipt, og hverjum skipað svein'
Með skjöld við hlið, og skálm í styrkri mundu,
Hvar skyldi' hann reiða' í hernum bláan flein.

VII.

Nú reið á völlinn Blálands fylkir fram,
Á fáki svörtum, og með dökkvan hjálm,
Á skildi mátti skrýddan líta gamm,
Og skjóma lagðan vel með jötna sálm;
Andlitið huldi ísarngríma dökk,
Sem öllum mönnum svipinn hilmis faldi,
Og líkam allan klæddi brynja blökk —
Buðli þá kallar miklu raddar valdi:

VIII.

„Hví ber þig, Oddur, Blálands ströndum að,
Buðlungur frægur Garðaríkis þjóða?
Hefurð' ei nógu víðan veldis stað,
Veglegan auð og dyngjur hrannar glóða?
Skulum vjer byrja skálmahvininn nú,
Og skötnum fórna Heljar köldum sölum?
Kenni jeg þig, og kann það vera', að þú
Kennt hafir áður mig í hildar dölum".

IX.

Þá svarar Oddur aptur fylkis ræðu:
„Ágæti þitt nú reyna skal og vald,
Hvort megir þú í skálma veðri skæðu
Skjóma með hreysti bera' og grímu fald;
Burtreiðar þjer jeg býð í leikinn stinna,
Og beggja okkar lið skal horfa á;
Svo vil jeg reyna hreysti handa þinna,
Og hetju-móð í snarpri orra-þrá".

X.

Þá mælti hilmir, hulinn grímu faldi:
„Í hildar leik eg ei þig flýja mun,
En dimmu studdur Dáinsþjóða valdi
Um darra-hríðar lokin hef eg grun;
Bústu þá til, þú gylfi gerzkra þjóða,
Sem gildur mig í ríki sóktir heim;
Hygg eg, að optar hyggistu' ei að bjóða
Hetju, sem mjer, til vígs í rómu geim".

XI.

Beggja nú liðið báðumegin stóð,
Buðlungar þegar sennu vildu halda;
Og ekki nokkurt heyrðist óp nje hljóð,
Nje hjörva þytur, eða glaumur skjalda;
Á fáki hvítum framdi Oddur skeið,
Með fetlum gulls, sem skini sólin björt;
Döglingur hinn á dökkum hesti reið,
Dimmum, sem vetrarnætur tjöldin svört.

XII

Nú runnu saman faxskelfandi fákar; —
Sem færi leiptur gegnum himna slóð,
Og drægist band í lopti blossa-rákar,
Og bærist snöggt um himin loga flóð:
Eins sáust blika þar á stórum stöngum
Stálodda mergð og gull-eitrunga fjöld —
Svo hleyptu sjólar hart á vegi löngum,
Svo hausa-mölnir söng við bjartan skjöld.

XIII.

Lögðu þeir stöngum fast á brynjur bláar,
Bifuðust kappar ekkert söðlum í;
Og allan dag þjer ljeku listir knáar,
Og laut þar enginn öðrum í þeim gný. —
En þegar sól af háum himna stóli
Í hafið rann, og skuggi kom á láð,
Þá mælti loksins Blálands svartur sjóli,
Hin sömu orð, er hjer nú skulu tjáð:

XIV.

„Þú Örvar-Oddur, gylfi gerzkra þjóða,
Sem gildur mig í ríki sóktir heim,
Þjer vil jeg nú til veizlu dýrrar bjóða,
Með veg og kæti, og með fögrum seim;
Kalla eg jafnan framinn frægðar leikinn,
Með fák og stöng; jeg býð þjer nú í sal,
Að sitja þar við sætan veizlu reykinn,
Og slíðrum í að hvíla bjartan fal“.

XV.

Aptur hinn frægi Örvar-Oddur svarar:
„Áður jeg hlýt að frjetta nokkurs þig —
Sú frjett nú berst um fold og slóðir marar,
Að fylkir sjertú hjer um Blálands stig;
En engi veit, hvað áttu nafn með þjóðum,
Og öflugt heit eg strengdi' í mínum sal,
Að fara' ei aptur fyr af þessum slóðum,
En fræddist eg, hve þig ég nefna skal“.

XVI.

Hilmir þá mælti: „mjög ei á því ríður,
Hve manna heiti nefnast hjer á jörð,
Mig þekkir sjer hver þjóð, og allur lýður,
En þó mig engi nefnir láðs um svörð;
Kvillanus máttu kalla mig, og segja,
Að konungsveldið Blálands egi hann;
Nú munum vjer á mörk ei lengur þreyja,
En munar - löginn smakka' í hildings rann'".

XVII.

Nú fóru allir fylkis heim að sölum,
Þar fögur veizla og gleði búin var,
Menn skemmtu sjer við vín í skugga svölum,
Þar skyggðu pálmaviðar - eikurnar;
Svo mundu dagar mærir nokkrir líða,
Miðjarðar - sólar undir ljóma fald',
Þá vakti Oddur máls við lofðung lýða,
Er lágu þeir, og fól þá silki - tjald:

XVIII.

„Þú hilmir Blálands hitasælu stranda,
Þar hlær á lopti eilíf gróðrar - sól,
Þar jarðar grös um alla árstíð standa
Í yndis - blóma', og skrýða foldar - ból!
Þar bláar unnir fram með ströndum streyma,
Og stirnir á í röðulgeisla sjón:
Læra menn hjer ei hörmunum að gleyma,
Þó hugann víða elti þeir um frón?"

XIX.

„Voldugt þú ræður ríkum Blálands þjóðum,
Og reiðir sprotann hátt í styrkri hönd, —
Ríki þú átt með Ránar dætra glóðum,
Og rekka dæmir snjallur málin vönd!
Hví dylstu sífelt lýðum þinna landa,
Og lætur grímu hylja andlits - sjón?
Því nöfnin hafa rödd, en ekki anda,
Sem allir heimta þó um jarðar - frón".

XX.

Þegjandi hari horskra Blálands lýða
Um hríð þá sat, og nið'r á jörðu leit, —
Forvitinn Oddur eptir mundi bíða,
Hvað orða buðli stillti máls af reit;
Unz hilmir loksins eptir langa stundu
Leit upp úr hugar þungum drauma heim',
Og upp hann reis af bekk á blóma grundu,
Og buðla sagði við með orðum þeim:

XXI.

„Þá mun jeg kveðja, þengill frægi, þig, —
Þreytt höfum kappleik vjer á hildar vengi;
Í stríði aldrei sigra muntu mig, —
Mig þú vel þekkt um daga hefir lengi;
Til eru öfl, er aldrei sigrast mega,
Og aldrei heldur vinna sigur sjálf,
Að heyja saman stríð þau aldrei ega,
Því annars verður goða-vizkan hálf".

XXII.

„Fyr en þau bæði fríðan sigur hljóta,
Og falla bæði', en standa undir eins:
Fyr mun ei nokkur friðar-sælu njóta,
Og finna ei til heiptarþunga neins; —
Minnistu Þórðar? manstu Vigni unga,
Og margan kappa, sem í báru dó? —
Kennirðu sjón og kröku-jóðið þunga,
Sem kampinn missti fyr, og að því hló?"

XXIII.

Þá lypti gylfi grímunni' upp á hjálminn —
Þar geymdist undir þur og holdlaus kinn;
Og burtu ljet hann leggjast spanga málminn,
Lofðungi þá hann sýndi hlið-svipinn:
Kampurinn allur var þar fleginn frá,
Og flett upp hold af kjálka' og beinum grana;
Undraðist Oddur, er hann svona sá
Segginn harðleikinn, Ögmund Eyþjófsbana.

XXIV.

Þá reis upp mökkur, eins og skuggar skýja
Í skini tungls um miðrar nætur stund
Hart undan bráðum himna stormi flýja
Og hverfa yfir sjó og alla grund:
Eins gaus upp ský, þar greppur áður stóð,
Og gráar vafði bringa-bárurnar,
Unz upp í lopt það æddi hart af slóð:
Ögmundur með því burtu horfinn var.

XXV.

Þá mælti Oddur, miklum sollinn harmi, —
Og mökk um huga söknuðurinn dró —:
„Þig mundi' eg drepa, þýjar niðjinn armi,
Sem þjaka náðir minni hugar ró;
En þú ert andi', af öðrum þjóðum fenginn,
Að elta mig með sorg og kvalaher;
Sje jeg það vel, að sigrað fær þig enginn,
Eg sækist því ei lengur eptir þjer".

XXVI.

Kallaði Oddur allt nú saman liðið,
Og aptur heim í ríki sitt hann fór,
Heitið var efnt, og hildar kannað sviðið
Þar heitur vermir foldu röðuls jór.
Hugleiddi' hann orð, er hinnstu mælti sjóli,
Og huggun í þeim vonum framar sá,
Þó sízt hann vænti', að frá svo tryldu fóli
Hann fengið gæti andans hressing þá.

XXVII.

Þá komu menn með auð og gjafir góðar,
Er grettur Flóki Oddi senda vann:
Gimsteina fjöld og fylvings-liljur rjóðar,
Og fáka skjóta', úr Arabíu rann';
Frá Blálands hilmi boð þeir mundu færa
Til buðla, sem að rjeði gerzkri þjóð,
Vináttu boð og friðar skjöldinn skæra,
Skrýddan með hvítu silfri' og Ránar glóð.

XXVIII.

Oddur þá tók við fögrum fylkis boðum,
Því fremst af vizku sinni hann það sá,
Að ekki dugði' að deila móti goðum,
Og darra hríð því vjek hann þeirri frá. —
Aptur hann sendi auð og skíran ljóma,
Þó yfirunninn væri ekki hann; —
Svo hætti langvinnt stríð við dísar dóma,
Sem deilur vekja' og sefa' um foldar rann.

XXIX.

Nú ríkti Örvar-Oddur lengi láðum,
Ljóshærðri undi hann hjá Silkisif,
Og stýrði lýð með fremd og fögrum ráðum,
Og friðar-sólin ljek með geisla-bif,
Er gæddi þjóð með gleði og hægum náðum,
Á grund, í dal, sem fram við ægis rif,
Og ekkert kom nú lengi fram við lýði,
Sem ljet menn þurfa' að reiða dör í stríði.

---

## ATHUGAGREINIR.

Vers: I, 2. l.: Blökkumannaland (Bláland), kannske = Aethiopia í Affríku, hún liggur í hitabelti jarðar, og er þar svo háttað landslagi, að þar eru bæði eyðimerkur og sandar, eða frjósöm lönd og mikill gróði.

— II, 6. l.: ylfingur = konungur.

— IV, 8. l.: ylfingur, sjá v. II, 6. l. — 5. l.: lög Hárs (ɔ: Óðins) = herlög. ll. 7—8 merkja, að ríki konunga sje styrkari en svo, að þau megi eyðast eins ljett, og ægisandur rýkur fyrir vindi.

— VI, 3. l.: gunnur = stríð, orrusta.

— VII, 5. l.: ísarn- = járn-.

— XII, 3. l.: blossa-rákar band er haft, til að sýna hraðann á eldingunni, því það er opt eins og ljósrák liggi snöggvast á himninum, er hún fer um. Fornvitringar hjeldu (þó það væri rangt), að þegar eldingar gengi, þá rifnaði himininn, og menn sæi inn í glóandi djúp (fissurae coeli). — l. 6: eitrungur er orms heiti (ɔ: ormar, gerðir úr gulli). — l. 8: hausa-mölnir er sverðs heiti.

Vers: XVII—XVIII lúta að að því, að Bláland liggur undir hitabeltinu, og vel við gróða jarðar.

— XVIII, 6. l.: sjón er bæði það, að menn sjá, og það, sem menn sjá (hjer hið síðara) = sýn.

— XXII, 7. l.: Kröku-jóð kallast Ögmundur hjer, af því hann var tröllkonu sonur (Kraka er tröllkonu heiti).

— XXVI, 4. l., með röðuls jó er haft tillit til þess, sem segir í Snorra Eddu (bls. 7.), að sólin keyri tvo hesta („þeir hestar heita svo: Árvakr ok Alsviðr“).

— XXVII, 3. l,: fylvings-liljur; fylvingur er sverðs heiti; til er blóm, sem heitir sverð lilja (á latínu Iris, en á dönsku Keiserkrone); þetta er haft fyrir stór og dýrðleg blóm yfir höfuð. — 4. l.; Arabía er nafnfræg fyrir eldi ágætra hesta, sem taldir eru beztir í heimi. — 8. l. lýtur að því, að hvítur litur er friðar merki, og gull er merki ágætis og frama.

---

# TÓLFTA KVÆÐI.

## Skuld.

I.

Nú hafði hetjan heila bráðum öld
Í heimi lifað, meðal þjóða frægur;
Lækkaði sól, og leið að æfi-kvöld, —
Því lýðum ern mörkuð bana-dægur,
Hugsaði hann um horfna æfi-daga,
Og hljóminn liðna branda-stáli frá —
Með honum fagrar ristir rúnir Saga,
Á randar-hvelið, svölum unnum hjá.

II.

Hvarflaði' að sjónum horfna æsku-stundin —
Í hjarta æ það á sjer tryggvan stað,
Er undum vjer við dimma drauma-lundinn,
Dýrasta minning ætíð vekur það —
Eins minntist hann nú mærra æsku-tíða,
Er máni blíður yfir dögum leið,
Og blóma rauðum rósin huldist fríða,
Og röðulgeislinn hló í dögg á meið.

III.

Nú langaði' hann, við æfi-stunda enda,
Er ellin tók að lita hárin grá,
Að líta ey, um æsku-daga kenda,
Og einusinni Norvegs strönd að sjá.
Til Hrafnistu hann sællar vildi snúa,
Þar sali áður byggði faðir kær,
Og ítar mundu' á æsku-dögum búa,
Og una sjer við mjaðar-hornin skær.

IV.

Hann fór af grundum Garðaríkis þjóða,
Og gullinhærða kvaddi silki-hrund;
Hjelt hann um mar, að líta landið góða,
Þar ljek hann fyr á tíðum marga stund.
Af hafi gægðust háir Norvegs tindar,
Þar himinvindur fer um jökla teig; —
Nálgaðist land, og sælir sáust rindar:
Sjólinn á feðra láðið aptur steig.

V.

Kannaði hann nú bæi' og gilda garða,
Og garpa frjetti hann um liðna tíð,
Hvað hefði gerzt, á meðan hildi harða
Og hjörva-roð hann vakti fyr með lýð;
Faðir og allir frændur vorn dauðir,
Og farin burtu sjerhver kunnug þjóð,
Búendur fáir, bæir margir auðir,
Sem byggði áður hetjuþjóðin góð.

VI.

Að Berurjóðri lagði' hann síðan leið,
Þar ljek hann sjer við Ásmund fyr á tíðum:
Fallinn var bær, og foldin vaxin meið',
Og fornar tóptir huldar þyrnum stríðum;
Um alla nú þeir æsku gengu grund,
Göfugur Oddur feldi sorgar-tár,
Er sá hann eydda fold og fríðan lund,
Þar fyrri ljek á döggu geislinn hár.

VII.

Bjuggust þeir aptur gnoða til að ganga —
Á götu lá þar forn og, blásinn haus,
En stillir í hann stakk með geirnum langa:
Þar stökk þá undan naðra', og eitri gaus;
Vatt hún sjer hvatleg upp með fylkis fæti,
Og festi djúpt í læri hola tönn,
En eitrið festi í öllu blóði sæti:
Þá urðu loksins völvu orðin sönn.

VIII.

Þá hnje af sári' í fyrsta sinn að foldu
Fylkirinn sá, sem aldrei unninn var,
Og hafði kappa margan lagt að moldu,
Og mestan allra sögðu þjóðirnar.
Bauð hann, að sveinar búa skyldu þró
Í bjargið, og sig síðan þangað færa,
Er hnigin væri sól í dauða sjó,
Og svefninn veitti hvíld og gleði væra.

IX.

Síðan hann bauð, að brenna skyldi lík,
Á Berurjóðri, fram við eikilundinn;
Nú voru framin Skuldar ráðin rík,
Og runnin upp úr hafi dauða stundin;
Síðan hann mæra setti til þess beima,
Að setja ljóð með rún á eikispjald,
Hann sjálfur kvað, en gumnar skyldu geyma,
Og gefa Silkisif það lausnargjald:

X.

„Forn ertu orðinn, Faxa haus!
Flegin, og horfin kinn af beinum!
Út frá þjer naðran eitri gaus,
Sem öðrum ekki geymt var neinum,
En mjer, um margra ára stundir;
Því mærast olli Skuldar ráð,
Að æsku-vengis vænar grundir
Verða skyldu mitt dauða-láð“.

XI.

„Hjer mun eg búa hreiður mitt —
Hæðir þessar eg fyrst nam eygja,
Er ljós mjer veitti sólin sitt —
Og síðast nú, er eg skal deyja;
Marglitum fram um mökkva-leiðir
Mannlífið birtir geislum sól,
Og ljómandi geisla-brotið breiðir
Bládöggvar á, sem húmið ól“.

XII.

„Leggst eg nú minn á bana-beð,
Bjóðandi yfir frægð og auði;
Heiður var mjer og lukka ljeð —
Lætur ei hikast við það dauði.
Hvar er nú horfna æfi-stundin?
Er hnigin niður frægðar sól?
Er visin orðin græna grundin,
Glóandi frægðarblóm sem ól?

XIII.

„Fjarlægan heyri' eg hörpu óm,
Frá hauðri, sem að þekkir engi —
Deyjenda eyrum æsa hljóm
Andarnir dimmu' á himins vengi;
Er það flugniður fyrri daga,
Sem flýja hart um tímans braut?
Eða strenghljómar stilltra laga
Stunda komandi' um himna skaut?"

XIV.

„Hver má þig kenna, kraptur hár!
Í kólguskýjum lífsins dulinn,
Sem átt þjer bú við eymd og tár,
Og opt í gleði-dúk ert hulinn;
Runninn af háum himna slóðum,
Halir ei kenna þína braut —
Veitir þú líf, og leyfir móðum
Að leggjast að hvíld í jarðar skaut".

XV.

„Ýmist við hægan hörpu-söng
Hverfir þú áfram ljettum öldum,
Eða við veðrin storma ströng
Stikar þú undir þrumu tjöldum
Hart yfir æstar hrannir víða,
Svo hríðum skekinn dunar sær,
Þú sem að ræður ráðum lýða,
Runninn af himni, lífsins blær!"

XVI.

„Langar mig nú að láta önd
Líða um vegu fyrri daga,
Meðan að hjör í styrkri hönd
Hermanna dreyra bauð að laga
Boganda strauni' úr blóðgum undum,
Og bjartan klauf í sundur hjálm,
Meðan á hauðri' og hrannar sundum
Harðlega benti' eg stæltan álm".

XVII.

„Man jeg, er baugur Bjarma skein
Blikanda ljóma' á jökul-vengi,
Og tryldir höldar hristu flein,
Og hótuðu dauða skatna-mengi;
Man jeg, er náir liðnir liðu
Í lygnum grænnar Vínu straum',
Og gægðust fölir upp úr iðu'
Í aldurtila þungum draum'".

XVIII.

„Man jeg, er gnoð á græði sveif,
Og geystur vindur hvein í stöngum;
Man jeg, er leiptrið mökkinn reif,
Og mækir söng á brynju-spöngum;
Hvatti að leita þeirrar leiðar
Löngunin eptir frægð og seim;
Nú eru götur búnar breiðar
Að bleikra náa dimmum heim'".

XIX.

„Hafði jeg eigi hlotið nóg
Hjörinn að reyna' á brynju-stáli; —
Um bylgju dal og dimman skóg
Dróttir eg ljet með Óðins báli
Fara á lagar-víkings leitir; —
Unz loksins há við Elfarsker
Hetjuna veittu hrannar reitir,
Er Hjálmar mæri kynntist mjer".

XX.

„Aldrei í frið' nje fölvis glaum,
Fríðari hetju' eg sá á grundu;
Jafnsnjall við sælan Sjafnar draum,
Og sverða - þyt á dauða - stundu,
Gekk hann með háum hetju móði,
Hrifinn af ást og skjaldar - eym,
Unz berserks ljóminn lagði blóði
Lofðungsins veg frá jarðar heim“.

XXI.

„Örlaga hönd mig hulin ljet
Um hrannir líða' að Íra ströndum,
Fóstbróðir þar eg fallinn grjet:
Ferlegast mein, sem bar að höndum —
En svanninn gaf mjer serkinn fríða,
Er sjótir margar unnu' um heim,
Og fylgdi mjer um foldu víða,
Og fölvi deyfði' í rómu geim'“.

XXII.

„Þá fann eg tryldan trölla son,
Sem tírum mörgum veitti dauða,
Og svipti hölda sælli von,
Og sýndi mjer veginn harms og nauða;
Um hildar stig mig ljet hann lengi
Ljómanum veifa', og bláum flein,
Unz loks eg sá, að sjóta mengi
Segginum gat ei unnið mein“.

XXIII.

„Kannaði' eg rammra risa láð,
Og rendi flaug af stæltum álmi,
Sýndi jeg sterkum rekkum ráð,
Ríkum af björtum jötna sálmi;
Beygði jeg krapt með kænsku ráðum,
Og konungsvald eg einum gaf,
Síðan með auð af lýða láðum
Um land eg fór og jarðar haf“.

XXIV.

„Kom jeg til gylfa gerzkra þjóða,
Gaf hann mjer land og mærast sprund,
Kórónu, sprota', og gripi góða,
Glaða þar átti' eg marga stund;
Við hölda þreytti' eg harða leiki,
Hvein þá í lopti' og dundi sjór,
Mjöðurinn svall við salar-reyki:
Með sigri þaðan burt eg fór".

XXV.

„Víða' eg fór um vegu jarðar,
Veglega frægð og auð eg tók,
Átti jeg skálma hríðir harðar,
Og hart í mund eg brandinn skók;
Olli því gýgjar illur niðji,
Að öll eg kom um jarðar lönd, —
Held eg nú engi halur biðji
Með hjörvi mig að slá á rönd".

XXVI.

„Heyrði jeg speki hölum frá;
Í himinblænum suðurlanda,
Lifnaði hjá mjer löngun þá
Ljóssins að kynnast betur anda,
Fór eg að Jórdans bárum breiðum
Blíður þar sannleiks jöfur stóð,
Fyr en hann leiddi þjóð á leiðum
Ljósanna, burt frá illzku slóð".

XXVII.

„Beztur ertú, sem bauðst mjer fyr,
Buðlungur himna', og ljóssins faðir!
Að ganga inn um glæstar dyr
Þar glóa sannleiks ljósa raðir;
Hlýddi jeg þínum háum ráðum?
Heimurinn þá mjer götu fól,
Sem vísar þjóð að ljósa láðum,
Þar ljómar eilíf dýrðarsól".

XXVIII.

„Hvað stoðar dýrðar minning mig,
Um margblikandi skjöld og fleina?
Nú sje jeg dimman dauða stig,
En dýrðarblossa ekki neina;
Og ekkert, nema vonin varir,
Að veröld önnur komi ný,
Til hennar augað andans starir
Án þess að vita rjett af því“.

XXIX.

„Hverf eg nú vegum foldar frá,
Af frægðar minnar saddur dögum;
Minningin vara mun þó há,
Hjá manna þjóð, í löngum sögum —
Hugsaði eg, að aptur mundi
Auðnast að snúa' í ríkið mjer,
Og lifa lengur þar hjá sprundi;
Leið mjer nú önnur vísuð er“.

XXX.

„Senn mun í reyk um loptið líða
Ljómandi frægð og vegur minn;
Svo eru örlög allra tíða,
Allt gengur veginn dökkva sinn. —
Heilsið nú frá mjer horsku sprundi,
Hitta sem ei eg optar má,
Segið, að út með ægis sundi
Örvar - Odds leiði megi sjá“.

XXXI.

Kappinn þá dó — en dimm við skjaldar rún
Dísin þá sat; og tár þó ei hún feldi,
Þá glotti ekki enn sem fyrri hún,
Er aflið dauðans kappann Helju seldi;
Lögðu menn hann í þró, við bjarga brún,
Og brendu líkið siklingsins í eldi.
Svo lætur nornin allra endast daga —
Örvar - Odds þannig hjer nú lyktar saga.

# ATHUGAGREINIR.

Vers: VII, 2. l.: stillir = konungur (komið áður).

— IX, 5. l.: beimar = menn. — 8. l.: lausnargjald kalla jeg kvæðið, af því það sagði Silkisif frá dauða Odds, og afsakaði (leysti) hann þannig frá að koma aptur.

— XVII, 2. l.: jökulvengi er Bjarmaland kallað hjer, af því það liggur svo norðarlega við Hvíta haf.

— XX, 3. l.: draumur Sjafnar er sæla ástarinnar. — 7. l.: ljómi (ɔ: sverð) berserksins (ɔ: Angantýrs) er Tyrfingur (sjá V. kvæði).

---

Jeg hefi gleymt, að geta þess, að fjörnir (á 50. bls., IV, kv. VI. vers. 3. l.) er hjálms kenning; faldur hans er þá hjálmfax eða herkuml.

# EPTIRMÁLI.

Þó að sagan um Örvar-Odd sje eins löng, og hún er í Fornaldarsögum Norðurlanda, útg. af Rafn, þá er hjer svo farið með hana, og henni svo víða breytt, og mörgu sleppt úr, að jeg hafði rjett i því, að kalla, að þetta kvæði væri frumkveðið. Sjerhver sá, sem breytir einhverju efni úr sögu-mynd í kvæði, hefir rjett til að fara með efnið eins og honum sýnist við ega. Jeg hefi sleppt öllu því, sem annaðhvort var ómerkilegt, eða tók ekki með neinu afli inn í gang sögunnar; einnig hefi jeg sleppt því, sem mjer fannst vera ófagurt — því menn geta ekki neitað, að sumt er í sögum vorum, sem andi og smekkur vorra tíma ekki þolir. Menn verða að vara sig á því, að láta ekki hetju kvæðisins verða hlæilega; hetjan má ekki heldur gera neitt, sem háleika hennar er ósamboðið, ef menn ega að halda hinn rjetta anda skáldskaparins í heiðri.

Rjettritunina á þessu kvæði vil jeg ekki verja; hún er sjálfri sjer víða ósamkvæm; til að mynda sumstaðar er þ u s s, en sumstaðar þ u r s; en þó verður þess að geta, að opt hefi jeg með vilja brugðið frá, t. a. m. í e g og j e g, e n g i og e n g i n n, o. fl., eptir því sem mjer fannst, að fallandi rímsins krefði hljóðstaf eða samhljóðanda; sama er að segja um breiða og mjóa hljóðstafi, svo sem e r t u, og e r t ú, eptir því sem rímið þurfti langt atkvæði, eða stutt. Jeg vona, að þeir, sem unna sannleikanum, fari ekki að reyna að rífa verk mitt niður fyrir eins lítilfjörlegan hlut, og þetta er i skáldlegu tilliti, eða fyrir það, að þeim líkar kannske ekki setning „hagga“ og „depilhagga“ og „stinga“, því þess konar er alls ekki bundið við fastar roglur, heldur er það komið undir því, hvernig sjerhver i hugsuninni aðgreinir meiningar og setningar, og það má verða með fleiru en einu móti.

Dálítið verð jeg og að drepa á rímið, sem á kvæðunum er. Drápan er eginlega orkt undir ítölskum átta lína „stönzum“, en þar hafa menn leyfi til að breyta á marga vegu setningu hendinga, og ef til vill, líka línulengd. En kvæðin sjálf eru alls ekki ætluð til að syngjast, heldur til að lesast; þegar menn lesa, þá verða menn að breyta röddinni og fallandanum og áherzlunni eptir atkvæða-lengd orðanna, en menn mega ekki hafa neitt visst lag í huganum; jeg bið einnig lesendur mína að lesa seint og með nokkrum framburði (d e c l a m a t i o n); fyrsta atkvæði í línu er stundum hjá mjer langt og þungt, en stundum stutt; og að þessu verða menn vel að gæta, ef kvæðin ega í lestrinum að halda þeim hetjulega þunga, sem þau hafa í rauninni, og sem á sjer rjettan stað í svona ljóðum. Sum af þeim kvæðum, sem koma fyrir undir allt öðru lagi, mega syngjast.

Jeg gæti, ef eg vildi, ritað eins langt rit um þessi kvæði, og þau eru sjálf. En hjer er ekki staður fyrir þess konar. Jeg vil ekki heldur geta þess, hvar mjer finnist að jeg hafa verið djarfur í myndun orða og kenninga; nema mjer finnst að „l á ð Ó ð i n s f l ú ð a“ sje óheppinn herkenning, og get jeg nú ekki gert mjer sjálfur grein fyrir, hvernig jeg hefi hugsað mjer það, þegar jeg skrifaði upp hugsun mína. Það er og ekki vel heppið, að hafa orðið „f l ú ð“ hvorugs kyns, því líklega ætti að kvennkenna það, eins og b ú ð, s ú ð. Fleira er og, sem mjer nú ekki líkar sjálfum, en það er hægra að sjá misfellurnar, er lengra líður frá, heldur en undir eins og hluturinn er nýgerður.

Bæði jeg, og einnig þeir, sem af góðvilja sínum rjeðust í að gefa út með mjer þessa bók, vona, að menn muni taka vel á móti henni. Tilgangur allra skáldlegra rita er menntandi, enda þó að sum þeirra, og einkum nú á seinustu tið, ekki svari nógsamlega til þessa tilgangs. Sá, sem ekki hefir tilfinningu fyrir öllu því, er menn kalla fagurt, hann hefir engan rjett til þess, að kallast menntaður maður, hvað lærður sem hann er; því djúpsæjasti lærdómur er margopt samfara grátlegu menntunarleysi. S c h i l l e r segir: „einungis í gegnum hið morgunljómanda hlið f e g u r ð a r i n n a r mun þjer auðið verða að stíga fæti þínum á land þ e k k i n g a r i n n a r“. Jeg þykist ekki vera neitt skáld, en það vil jeg þó segja, að ef jeg og útgefendurnir hefðum á-

litið, að bókin væri ónýt og ljót, þá mundum vjer hafa smánað þjóð vora með því að bjóða henni handaskömm; þegar vjer á annað borð þóttumst hafa smekk á að dæma um skáldlega hluti. Það er enginn hlutur hjer á jörðu svo fullkominn, að ekki megi að honum finna; en það eru líka margir hlutir, sem margt gott er i, og vona jeg, höfundur kvæðanna, að menn muni halda mjer til góða, þó að jeg leyfi mjer sjálfur að telja mitt egið verk með þeim hlutum, sem margt gott er í; því annaðhvort er, að menn segja satt frá sannfæringu sinni, eða menn ljúga, með því að segjast hafa gert ónýtt verk og ljótt, þegar menn hafa gert eitthvað fallegt. Þessháttar er annaðhvort hæverska, sem ekkert á við, og er öldungis röng; ellegar það sýnir, að maðurinn hefir ekkert vit á því, sem hann gerir sjálfur.

Um hin heimspekilegu kvæði, sem eru i sjötta kvæði, get jeg ekki verið að tala núna; jeg játa því, að þau eru þung og mega hæglega misskiljast; en þau taka inn i gang sögunnar, og einkanlega er það sjötta kvæði, sem er hinn skáldlegi grundvöllur fyrir dauða-söng Örvar-Odds. Oddur var aldrei heiðinn, og aldrei eginlega kristinn; en sú speki, sem hann (eptir minni meðferð á sögunni) nam, gerði svo mikil áhrif á hann, að hann fór til Jórdanar, og vakti margar hugleiðingar i sálu hans, sem fram koma i dauða-óðnum, og hefðu ekki getað átt sjer stað, nema á einhvern því líkan hátt. Búningur þessara kvæða er þannig, að hann leyfir að setja þar i uppgötvanir og skoðanir seinni tíma, og það væri öldungis rangt, ef nokkur færi í þessu tilliti að brígzla mjer um ósamkvæmni í tíma (anachronismus), og gæti jeg á margan hátt sýnt, að jeg hef rjett fyrir mjer í þessu, ef rúmið leyfði það hjer. Einnig álit jeg það rjettara og skáldlegra, í lýsingunni á skyrtunni (IV, kv.), að tala um hinar frægu hetjur suðurlanda, heldur en ef eg hefði farið að nota goðafræði norðurlanda eða náttúrulýsingar; og það er jafnvel tvísýnt, hvort mjer var það leyfilegt i skáldlegu tilliti, eða ekki. Jeg bið lesendur mína að gæta að mismuninum á milli anda Odds, og anda Hjálmars. Oddur var aldrei hneigður til ásta, en hann var fyrir hetjuverk og vizku, og þó um leið víða hrakinn af söknuði, heipt og hefndargirni. Aptur á móti er ástin grundvallarhljóðið í anda Hjálmars; og ekki skal jeg neita því,

að mjer þykir Hjálmar meiri og fegurri hetja, en Oddur; því hann var andleg hetja um leið, sem virti ágæti og fegurð og allt velsæmi, sem sjest bæði á þriðja og fimmta kvæði; en á þessu ber minna hjá Oddi. Höfuðhetja einhvers kvæðis þarf ekki að vera bezt eða fegurst í kvæðinu; en háleikur alvarlegs skáldskapar bannar samt að gera hana hlæilega og ljóta, eins og jeg sagði fyr. Svona er t. a. m. hjá Hómer, sem er hið frægasta hetjuskáld allra hetjuskálda: hann segist kveða í Ilíasardrápu um reiði Akkilleifs, og þar á Akkilleifur að vera höfuðhetjan; en þó er Hektor miklu meiri og fegurri hetja, af því afl andans og tilfinning á mannlífinu er einkenni hans.

Jeg vona, að mönnum finnist kvæðin ekki aflminni, eða tapa sjer, þegar aptur eptir dregur. Mjer finnast þau vera eins í því tilliti; en efnið ræður svo miklu, hvað framsetninguna snertir; og menn verða hjer að gæta að tvennu: í fyrsta lagi, að sama efni á ekki jafnt við alla, og í öðru lagi að allt getur ekki í sjálfu sjer verið jafn fallegt. Það eru margir daufir staðir í drápunni — jeg játa það; en hvernig á maður alltaf að vera jafn fjörugur? Hóratsíus segir, að sjálfur hinn frægi Hómer dotti stundum (ɔ: dofni). Það er og almennt, að menn segi að löng kvæði dofni, er á þau sígur; eins og t. a. m. sagt er um Eneasardrápu; en það er spursmál, hvert menn ekki dofni sjálfir, — það er: þreytist, af lengd kvæðisins, eða ef menn ekki lesa það rjett.

Jeg hefi ekki kært mig mikið um lönd, staði, og manna nöfn, því á þesskonar hlutum ríður ekki mjög mikið í þessu tilliti; en samt held jeg þar sje fátt sett, sem ekki má verja.

Hvað tilvísanirnar við kvæðin áhrærir, þá setti jeg þær, til að sýna, að jeg byggði orð mín á sögnum þeirra manna, sem enginn hefir enn rekið, og hefði jeg getað sett langtum fleiri; en það hefði orðið of langt, og jeg geymi þær því, þangað til jeg þarf.

Skrifað í Reykjavík, seinast í maí 1851.

*B. Gröndal.*

---

# ATHUGAGREIN.

Prentvillur, eða ranga skript orða, sem sje svoleiðis, að af því raskist meining, hef jeg ekki fundið annarstaðar, en á 75. bls., í V. kvæðis XXXI. versi, 4. l., þar stendur o g fyrir e g. En úrfellingar merkjum (') er víða sleppt af óaðgæzlu minni, og vonast jeg til, að lesendurnir muni sjá á lengd rímsins, hvar hljóðstaf skuli úr fella, þegar hann stendur á undan öðrum hljóðstaf. Samtengingar - stryk (-) eru og nokkuð ósamkvæmt sett, eða sumstaðar sleppt, en sumstaðar ekki. Geta verður og þess, að á 65. bls., í IV. kvæðis LX. versi, 6. l., er prentað r a d d a r-h á u m í einu orði, fyrir raddar háum, og í nokkrum exemplörum vantar „á" í VII. kvæðis X. vers, 1. línu (Dýr veit eg eitt á Alpafjöllum liggja). Sumstaðar framan til í drápunni er og s j á f a r fyrir s j á v a r, og á bls. 135, í X. kvæðis XXXVI. versi, 6. l., er g a g n s æ a n fyrir g a g n s æ j a n.

